# Andlegt

# Sálmasafn,

orkt hefur

**Ólafur Indriðason,**

prestur að Kolfreyjustað.

Akureyri 1857.

Í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

Fyrir góðsamlega uppörfan og tilstyrk herra byskups og riddara H. G. Thordarsens ljet jeg fyrir fáum árum prenta dálítið bæna- og sálmakver, og veit jeg ekki betur en það hafi fengið góðar viðtökur hjá löndum mínum. þetta dirfir mig til að láta nú einnig koma fyrir almennings sjónir sálmasafn, sem jeg hefi unnið að í nokkur ár, þegar mjer hafa gefizt tómstundir til, og eru í það teknir sálmar þeir sem á bænakverinu eru. Jeg var að sönnu eitthvað farinn að byrja á þessu, þegar herra byskupinn vísíteraði hjer eystra árið 1850, en ekki með neinni alúð, og má einungis eigna það hans mannúðlegri uppörfan og tillögum, að jeg hefi haldið því fram, gefið því það snið, sem á því er, og borið mig að vanda það eptir megni. Enginn finnur, ef til vill, betur en jeg, hvað sálmum þessum er áfátt, ekki sízt í tilliti til kveðskapar og orðfæris; en þessum missmíðum, sem jeg sje, er þó svo varið, að mjer hefur ekki fundizt jeg geta hjá þeim sneitt, án þess að fara þá á mis við tvennt annað, er jeg áleit meira í varið, sem var: að hugsanin yrði sú sem nú er, og ekki óljósari, eða meira sundur slitin, og blærinn hinn sami. Flestir af sálmum þessum eru algjörlega frumkveðnir, nokkrir eru gamlir, teknir úr áður prentuðum íslenzkum salmabókum, en flestir meir eða minna breyttir eða um steyptir, þó með allri þeirri hlífð við orðfæri og anda höfundanna, sem mjer fannst

skyldug og möguleg; sumir eru útlagðir, þó ekki svo margir, að jeg geti eða gefi um að ábyrgjast að það sje alveg eða smásmuglega gjört; þeir eru teknir úr svenskri sálmabók. Að efninu til er þessu svo hagað, að það kemur við flest merkis atriði hins kristilega trúar- og siðalærdóms, einkanlega þau, er annaðhvort hafa fremur orðið út undan eða eru meir á aðra vegu fram tekin í þeim sálmum, er finnast í messusöngsbókinni; líka eru þar fáeinir sálmar handa einstöku mönnum og við hentugleika. Þessu er þannig fyrir komið í þeirri meiningu að þetta litla safn gæti orðið ekki óhentugt handkver unglinga og fleiri almúgamanna, stutt eitthvað að glæða skilning þeirra á hinum einföldu sannindum kristindómsins, og gjöra þeim þau hugföst og hjartfólgin, verið má ske, ásamt messusöngsbókinni, til brúkunar í heimahúsum hjá þeim er vildu, og geymt, ef til vildi, nokkra sálma, sem notandi fyndust til að taka inn í hana, þegar hún yrði endurskoðuð, lagfærð og aukin.

Ó. Indriðason.

---

## Efni sálmanna.

---

1. **Guðs vera:** Rök fyrir því að guð er til; lærdómar og huggan af því 1. 2. 3. Sálmur. Guðs fullkomlegleikar saman bornir við ófullkomlegleik mannsins 4. S. Lofsöngur og bæn til hins þríeina guðs 5. 6. S.

2. **Guðs eiginlegleikar:** Almætti 7. S. Alvizka og alstaðar nálægð 8. S. Almætti, gæzka, miskunnsemi 9. S. Gæzka 10. 11. 12. 13. S. Sannsögli og trúfesti 14. S. Rjettlæti 15. S.

3. **Sköpunarverkið:** Sköpun og ákvörðun mannsins 16. 17. 18. S. Lofgjörð skaparans 19. 20. 21. S.

4. **Endurlausnarinn og endurlausnin:** Jesú nafn 22. S. Jesú velgjörningar 23. S. Elska og traust til Jesú 24.—26. S. Fall mannsins og þörf á frelsaranum 27. S. Koma frelsarans 28. 29. S.

5. **Jesú fæðing** 30. 31. S.

6. **Jesú pína og dauði** 32.—36. Jesú gröf 37. S.

7. **Jesú upprisa** 38.—41. S.

8. **Jesú uppstigning** 42. S.

9. **Ástgiafir heilags anda** 43.—46.

10 **Apturhvarf til guðs:** Útvalningin 47. S. Guðs köllun til mannanna 48. 49. S. Játning syndanna 50. 51. S. Nauðsyn apturhvarfsins 52. S.

11. **Elska og traust til guðs:** Elska 53. 54. S. Traust 55.—57. S. Von og bæn um daglegt brauð 58. S. Þolinmæði og undirgefni undir guðs vilja 59.—61.

12. **Skyldur við sjálfa oss og náungann:** Auðmýkt 62. S. Nægjusemi 63. S. Hreint hjarta 65. S. Staðfesta í hinu góða 66 S. Rjett brúk-

---

# I. Guðs vera.

## 1. Sálmur.

Lagið: Hver má Guð skynja hugur þig.

1. Hátignarfulli herra þjer Hnígum til fóta allir vjer, Vort þig vegsamar hjarta. Eilífa dýrð og almátt þinn Öll oss kunngjörir veröldin Og himins hersveit bjarta. Dýrð sje, Dýrð sje þjer alvaldi um allar aldir Alheims drottinn, Algóði, vísi alheims drottinn!

2. Sitt offur tendrar sólin þjer, Þá sína helgu fram hún ber, Auðlegð af undra ljóma; Eins þinn náttvörður máninn mær Þig miklað, himna drottinn! fær Um húmsins helgidóma. Dýrð þjer, Dýrð tjer Himins allur Herinn snjallur Himnafaðir, Á heimana nafn þitt þín hönd ritaði.

3. Munnar lofsyngja þúsund þjer, Þitt lof hver dagur öðrum tjer, Hver nótt greinir það hinni; Eldfjalla dunur, skruggan skjót, Skellibyljir og hafs umrót Ljóst hátign lýsa þinni. Önd sú, Er þú Blása vannst í brjóstið manns, Sá blær þíns anda, Í hæð sjer lyptir og lof þjer vandar.

4. Í þjer, ó faðir! fagnar allt, Þú fæðir, klæðir, verndar allt Með hægri hendi þinni; Þú leiðir

stjörnu' um bjarta braut, Býr veg og skýlir dals í laut Smáskepnu, maurnum minni. „Faðir, faðir" ! Fuglar segja; því einn þegja þá eg skyldi, Er daglega finn þína föður-mildi.

5. Hærra en flýgur hugsan skýr Heilögu þú í ljósi býr, Syndugra falinn sýnum; Hjer í duptinu höndin þín Handaverkin þó annast sín, Og bregðst ei börnum þínum. Faðir, Faðir! Son þinn góða Sendir þjóð og sannleiks anda, Öllum þinn faðm lít jeg opinn standa.

6. Heilagar raustir hefja sig, Heilagan drottinn kalla þig þín börn í anda einum. Heyr þau ó guð! þau hrópa' á þig, Helguð auðmjúk þjer gefa sig, Með trú og huga hreinum. Send oss, Send oss Vizku og ráð, Svo vjer á láði veg þinn bæði þekkjum og öðlumst þitt hjálpræði.

7. Frá helgidóm þíns himins nú heilagri til vor ásján snú, Send frið og blessan blíða. Þitt nafnið prísa viljum vjer Með veikum rómi á jörðu hjer En englasöng ásíðan. Dýrð sje, Dýrð sje þjer alvaldi Um allar aldir Alheims drottinn, Algóði, mikli alheims drottinn!

## 2. Sálmur.

Lagið: Greinir Jesús um græna trjeð.

1. Vei þeim er segir: „enginn er Eilífur guð sem veit og sjer". Hvað yfrið myrk er öll hans leið, Hvað ógnarfull í lífi' og deyð!

2. Honum við heiminn halda bönd Harðfjötruðum með lífi og önd; Rósamt fær aldrei hjarta hann, Huggun í neyð ei öðlast kann.

3. Hann veit ei hvílík unan er Í ást við guð að koma sjer; Og hjartað hans þó hrelli kíf, Ei hressir von um eilíft líf.

4. Ó hvað vesæll er sjerhver sá, Sem þjer minn guð er vikinn frá! Hver getur virt af hjarta þann? Hver vill reiða sig upp á hann?

5. Þú hinn voldugi' ef enginn ert Allsherjar guð, hver hefir þá gjört Hinn fagra víða veraldargeim? Hver viðheldur og stjórnar heim?

6. Hver himin-ljósum lagði veg, Og lög þeim setti' órjúfanleg? Hver lífsins huldu bjó mjer braut, Mjer býtir gleði og líkn í þraut?

7. Hver fjekk þau lög í hjörtun sett, Sem hiklaust bjóða: „gjörðu rjett, Allur veraldar vonzkuher þó vopni sig á móti þjer“?

8. Hönd þína sje jeg, herra guð! Og heyri glöggt þín eilíf boð; Uppspretta lífsins er í þjer, Í þjer lifum og hrærumst vjer.

9. Öll hjörtu leita upp til þín, Andvörp þjer drottinn! flytja sín, Þú hjartans von og huggun ein. Sem hvers manns þekkir tár og kvein.

10. Öll veiztu faðir! andvörp mín, Allt hefur þú í hendi þín; Minn hjartans frið og hugar neyð Minn harm og kæti, líf og deyð.

11. Allt það sem mönnum myrkt er nú Hinn

mikli guð vilt birta þú Þá tímans rifnar tjaldið það, Sem tíma og eilífð skilur að.

## 3. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó guð! í þjer jeg er og lifi, Og elska boð þín föðurleg; Án þín jeg minna' en ekkert hefi, Allsnægtir þegar hef jeg þig. Ef gleymi' eg þjer jeg gráta hlýt, Ef gegni' eg þjer jeg sælu nýt.

2. Dásemd þíns guðdóms glöggt jeg skoða Geysan stormanna' og hafsins í, Almætti þitt mjer þruman boðar, Og þína gæzku döggin hlý. Ó guð! að þú ert ástvin minn Í þínum boðum ljóst jeg finn.

3. Sú raust í brjósti' er ræðir mínu, Og rækja knýr mig helga dyggð, Sú líkn sem hjartans ljettir pínu, Þá lemstrað er af mæðu og hryggð: Allt er það náðin einskær þín Ó guð! sem stundar velferð mín.

4. Mín ró og friður hjartans hreini, Þá heilög ræki' eg boðin þín, Sú blygðan sem jeg ber í leyni, Þó brot ei nokkur viti mín: Rjettlætis þíns það röksemd er, Rjettláti guð! sem verk mín sjer.

5. Nær heimsins gæði' eg hverful smái, Svo himna megi gæðum ná, Og synda fýsnir sigra nái Svo svig á mjer þær ekki fá: Það gefur mjer þín guðdóms hönd, Sem greiðir af mjer syndabönd.

6. Svo finn jeg að þú guð minn góði Ert gæzkuríkur faðir mjer, Og raustu þína heyri í hljóði, Að heiti þetta geðjist þjer. Ó guð! á öllu skært þú skín, En skærast þó á hjarta mín.

## 4. Sálmur*.

Lagið: Ó drottinn kær! hvað veiztu vel.

1. Eilífur faðir allra vor, Er himin skópst og jörð, Hvernig má jeg hafa til þor Að hefja við þig orð Jeg sem að dupt og aska er? Eins og gras-stráið fyrir þjer, Sem veðrin hröktu hörð.

2. Þú ert einn guð og þekkir vel það jeg er aum mannkind, Heilagur einn í Ísrael, En jeg vafinn í synd; Þínum er bert fyri' augum allt Undirdjúp, himnar, láð gjörvallt, en mín eru augu blind.

3. Eitt ljós ert þú það enginn sjer Augunum skilningsins: Dauðleg eru myrkur í mjer Mest þó ránglætisins; Þú mátt og megnar allt hvað er, Eins og þú býður strax það sker, Jeg blygðast máttar míns.

4. Þú guð ert andi einka hreinn, Eilífan játum vjer, Yfirdómara átt ei neinn, Allt verður lúta þjer. Jeg má reiknast sem maðkur í mold, Mitt syndum spillta blóð og hold Dauðann á baki ber.

5. Þín dýrð og fegurð drottinn minn Dásamleg næsta er; Hásæti þitt er himininn Hauðrið þín

fótaskör. Svo er þín tign óteljanleg, Tjáð fær ei mælskan veraldleg Nje æðstur engla her.

6. En jeg er drottinn! aumur þjón, Er þína styggði lund, Skuldugur fyrir sjálfs þíns sjón Syndanna ótal pund. Sem villtur sauður orðinn er, Ó herra! leita þú að mjer, Og leið mig á þinn fund.

7. Hvert skal jeg flýja fyrir þjer Og finna samastað, þar sem þitt veldi ekki er: Ómögulegt er það. Allt er þjer drottinn opinbert, Eins það jeg hef í leyndum gjört, Þeim kemur efnum að.

8. Viljir þú ganga í dýran dóm, Drottinn! hvað er jeg þá? Tungan loðir við tregan góm, Til kann ei andsvar fá. Samvizkan tjáir mín það mjer, Jeg megna' ei standast fyrir þjer, En falla flatur má.

9. Af því nú guð minn elsku-kær Eg bið af hjarta þig: Minn anda kraminn endurnær, Út rek ei herra! mig; Minnstu heldur á miskunn þín, Mjer þitt föðurlegt hjarta sýn, Og geym frá glæpastig.

10. Þú hefur sjálfur sagt það víst — þitt særi ei bregðast má — Að hjarta þitt ei hefði lyst Herra nje þóknun á Sálartjóninu syndarans, Sæir með gleði betrun hans, Svo mætti miskunn fá.

11. Heitin þín drottinn hugga bezt Hrellda samvizku mín, Af því þú koma aldrei ljezt Erindislaust til þín iðrandi sálar andvarp heitt; Öllum fær Jesús líkn þeim veitt, Er hata syndir sín.

12. Þjer er það kunnugt góði guð, Jeg girnist

þína náð, Í mjer þú skapa auðmjúkt geð, Og gef mjer stöðugt ráð. Endurnýja svo allan mig, Að jeg meðtekið fái þig, Og þína öðlast náð.

13. Efl mig, ó guð! í elsku þín, Innlífa sjálfum þjer; Vert þú í hug og hjarta mín, Hvar sem jeg er og fer. Vertu mjer Jesús! vegur og líf, Við voða og freistni bezt mjer hlíf, Og öllu vondu ver.

14. Þú þekkir innra allan mig, Ei dylst jeg fyrir þjer; Ekkert girnist jeg utan þig, Einn þú fullnægir mjer; Hugsa þarf ei um himin nje jörð, Hjegóma lyst, nje þeirra dýrð, Sá þig hefur með sjer.

## 5. Sálmur.

Lagið: Heiður sje guði himnum á.

1. Eilífi drottinn! upp til þín Auðmjúk vor hjörtu snúa, Enn í dag náð þín yfir oss skín, Á þig vjer skulum trúa; heimsins skapari herra' og guð Heldur með dásemd öllu við, Stjórnar, verndar, stýrir, blessar!

2. Ó guð vor faðir! allir hjer Ásjónu fyrir þinni Með bæn og lofgjörð birtumst vjer, Bljúgir í huga' og sinni. Heiðri þig faðir! himin og jörð, Þjer hæfir eilíf þakkargjörð, Lífs og gæzku og friðar faðir!

3. Ó Jesús! þú sem allra neyð Einn barst og líkn oss greiðir; Keyptir oss líf með krossins deyð, Með kenning þinni oss leiðir; Auðmjúkri lofgjörð

offrum vjer, Ó vor frelsari' og drottinn! þjer, Önd og líf þjer gefum glaðir.

4. Eilífi guð! lát anda þinn. Í eining við þig oss leiða, Himneskan frið og sannleik sinn Í sálu vorri' útbreiða. Lát vora dýrkun þóknast þjer, þína blessun, sem grunnlaus er, Leggðu faðir! yfir oss alla.

## 6. Sálmur*.

Með sínu lagi: Guð vor faðir vertu oss hjá.

Heilög þrenning! vertu oss hjá, Og við fordæmingu vara; leystu oss öllum löstum frá, Lát vel af heimi fara; Gegn öllu illu' oss hjálpa' og hlíf, Hald oss við trúna fasta, Til þín lát þú oss þyrsta, þjer af hug öllum treysta. Á oss eign þína ætíð sjá, Og allar heimsins þjóðir Vjer biðjum líkn þín leiði, Og lífsins veg þeim greiði. Amen, amen það sje já, Samsyngjum halelújá.

*) Athugas: þetta vers má og syngja ef vill þrísvegis eins og siður var eptir grallaranum með þessum hætti:

Guð vor faðir! vertu oss hjá
Jesús Kristur! vertu oss hjá.
Heilagur andi! vertu oss hjá.

# 2. Guðs eiginlegleikar.

## 7. Sálmur.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

1. Allsherjar drottinn! dýrð sje þjer, Dásemd allt þinni hrósi; Frá hástól þínum, er himininn ber, Huldum eilífu ljósi Um veldið endalaust þinn armur nær og raust; Af þinni ógna dýrð Þín aldrei full útskýrð Sjest þó og þekkist mildi.

2. Þegar þitt guðdóms öflugt orð Almáttki herra býður, Strax myndast himnar, höf og storð, Og hnattaskarinn fríður. Öll skepnan deyr og dvín, Drottinn! við bending þín, Himnarnir hverfa þá, Hnettir í loga stá, Og allt að engu verður.

3. Náttúrunnar þú brátt fær breytt Boði, nær þjer svo hagar; Oss er hún lög, en aldrei neitt Á formi þínu hún bagar. Öll flýja öflin þver, Örmagna fyrir þjer, Þín frjálsa föðurhönd, Frí við alls konar bönd, Heimanna stjórnar högum.

4. Með valdi og svikum vonzkan þá Vill rjetti' og sannleik halla, Þú beinir henni' á braut, hvar sá Bylgju varð ofsinn falla. Nær börn þín hræðast hjer Háskann, sem að þeim ber, Þ'n máttar hulin hönd Hrekur burt neyð og grönd, Nýtt logn og sólskin sendir.

5. Himneski faðir! hjálpa mjer, Svo heitt þig elska kunni, Og heiðri þig og hlýði þjer Af hjart-

ans innsta grunni. Ást þína ann mjer sjá Eins glöggt og sólu þá, Sem skín hvern morgun mjer, Mitt glaður svo hjá þjer Skjól hafi' í hvers kyns raunum.

## 8. Sálmur.

Lagið: Nú bið jeg guð þú náðir mig.

1. Ósýnileg og heilög hönd Um heimsins ræður gjörvöll lönd, Augu, sem dúr kom aldrei á, Að öllum hlutum sólskær gá; Svo rambyggt vígi ekkert er, Að ei sú hönd þar nái þjer; það ógna myrkur aldrei var, Að augu þessi' ei sjái þar.

2. Hvert sem þú fer, og hvert þú flýr, Herrann þinn guð þar fyrir býr. Hygg að hvort ei er helgur þá Hver blettur sem þú stendur á? Alstaðar nærri er þjer hann, Sem í þitt hjarta rita vann Lög sín og orð, og fól þar frið, Ef frómlynt stundar líferníð.

3. Ef guðs þú brýtur boðin há, Í brjóst þitt inn hans þrumur ná; Hann er dómari' og drottinn þinn, Dómstól þig kallar fyrir sinn; Hans vitni ei þú hrakið fær,: Hann man lengra' en hvað skeði' í gær; Við hann að þræta ónýtt er, Alstaðar því hann fylgdi þjer.

4. þó hræsni, flærð og hrekkja-smíð' þú hulið fáir langa tíð, Syndari! fyrir sjónum manns, Ei sjónum dulizt fær þú hans; Illskunnar vefur allur þinn Er honum ljós sem dagurinn. Eitt sinn hann gjörir opinbert Allt það sem var í leynum gjört.

6. Þú, sem í hljóði þrautir ber, þitt vitni líka drottinn er; Fjarlæg er ei hans hjálparhönd, Huggastu við það særða önd! Sannleiks vinur, sem gjörir gott, En gleymist, eða líður spott, Minnst þess: að drottinn alvís er, Og eitt sinn greiðir launin þjer.

7. Háleit og rík er huggunar Sú hugsan „guð er alstaðar“, Ei að eins þar sem þruman fer, Og þar sem blikar stjarna her; Hann og í myrkri hlífð er mín, Hann gleður mig þá dagurinn skín, Já í öllu sem er og sker Æ hans guðdómur birtist mjer.

8. Ó guð! mín unan eilífleg, Í þjer hrærist og lifi jeg; Þín himnesk föðurhöndin mig Um heimsins leiðir myrkva stig; Í henni' eg hvíld og umsjón hef Örendur nær í jörðu sef, Unz blítt þú vekur aptur mig, Unnir að sjá og lofa þig.

## 9. Sálmur.

Lagið: Sá ljósi dagur liðinn er.

1. Þú heilagi þjer hefja skal Mitt hjarta þakkargjörð, sem háan byggir himnasal, Og herrann ert á jörð. Heiður sje guði' í himnaríki!

2. Þú brunnur gæzku allrar ert, Alveldis-tignin há. Öll líkn og mildi, leynt og bert, Allt líf þjer streymir frá. Heiður sje guði' í himnaríki.

3. Hvað er það gott í öllum heim, Er öðlazt

hýðir fá, Sem gæzka þín ei gefi þeim, Ó guð vor himnum á? Heiður sje guði' í himnaríki!

4. Hver festing mynda fagra vann, Og fríðan stjarna her? Hver dögg á foldu dreipa kann, Svo dýran ávöxt ber? Þú, herra guð í himnaríki!

5. Hver stýrir frosti, stormum, snjó, Stillir svo vinni' ei mein? Hver klæði, skýli, björg oss bjó, og blessar í hverri grein? Þú, herra guð í himnaríki.

6. Hver gaf oss líf, enn lífsins grand lægir á alla hlið? Vort verjulaust hver verndar land, Og veitir hinn gullna frið? Þú, herra guð í himnaríki!

7. Já, drottinn drottinn! Þú ert það, Sem þetta gjörir einn, Sem blessar, hlífir, hjúkrar að, Svo háski' ei grandar neinn. Heiður sje guði' í himnaríki!

8. Þú hefur vorri fæðing frá Oss faðir verið trúr; Þú stendur oss í öllu hjá, Og ert vor hlífðarmúr. Heiður sje guði' í himnaríki.

9. Þú hegnir brota mildi með — Þjer mildi er kær og sátt —; Og þeim sem betrast brotin skeð Að blessan gjörir þrátt. Heiður sje guði' í himnaríki!

10. Þú hlýðir fús vor andvörp á, Ef auðmjúkt hjartað er, Og oss af gæzku gefur þá, Hvað gagna bezt þú sjer. Heiður sje guði' í himnaríki!

11. Þú aumingjanna telur tár, Og tekur í geymslu þín, Og enginn dropinn er svo smár, Að á honum missir sýn. Heiður sje guði' í himnaríki.

12. Þú bætir heimsins blóma rýrð Með betri

auð hjá þjer; Og hefur oss í himna dýrð, Nær hjervist fallvölt þver. Heiður sje guði' í himnaríki,

13. Svo vert með góðu geði þá, Og gleð þig andi minn! því sjálfur guð, sem alls vald á, Er ástarfaðir þinn. Heiður sje guði' í himnaríki.

14. Ef eitthvert böl þjer ama kann, það ei þig sigra látt: því áhyggjunni upp á hann þú óhult varpa mátt. Heiður sje guði' í himnaríki!

15. Sjá! fyrir þjer frá æsku önn Hann ól af mildi sín. Hvað margri rauna' og háskahrönn Hann hratt af vegi þín! Heiður sje guði' í himnaríki!

16. Og aldrei droitni yfirsjást Í athöfn stjórnar má. Nei, öll hans verk, það aldrei brást, þau enda góðan fá. Heiður sje guði' í himnaríki.

17. Í hans jeg glaður hönd mig fel, Og hann að ráða bið; þá skál mjer ætíð vegna vel, Ei vanta sálarfrið. Heiður sje guði' í himnaríki!

## 10. Sálmur *.

Með sínu lagi.

1. Rís upp mín sál og bregð nú blundi, Byrja lofgjörðar nýjan söng; Með þakklæti á allar lundir Inn þjer í himna hæðir þröng. Fastlega knýþá fögru borg, Fjarlæg á meðan heimsins sorg.

2. Til himna vil jeg hjartans feginn Hefjast jarðnesku sinni frá; Heimili mitt á himnum segi, Hvert meðan lífi gjöri að þrá; þúsundfalt lof og þökkin dýr þjer sje guð sem í hæðum býr!

3. Ó guð mín þökk af þíðri lundu þrengir sjer inn í himna slot. Eg prísa þig af allri öndu Auðmjúkur fyrir sjerhvað gott, Sem þú hefur mjer tjáð og tjer Til þeirrar stundar nú sem er.

4. Frá vöggunni þó vildi' eg framan Velgjörðum þínum skýra frá. Hjálpi mjer guð! þær hrúgast saman, Hjer má ei koma tölu á. Fyr en að sólu sá jeg hjer Sinnt hefur þú og líknað mjer.

5. Áður en mjer kom orð á túngu Umsjón míns guðs þó með mjer var. Þá lítill var jeg enn og ungur Og ofurlitla skynsemd bar, Hann „Faðir vor!" mínu með Mjer sig ástríkur kynna rjeð.

6. Strax sem mig aldur yfir færðist Hans orða ljós mjer glæddist hjá; Hans andi trúna hjá mjer nærði, Og huggun ljet mig af því fá, Nær að mjer þrengdi einhver raun, Upp til míns guðs að kvaka' á laun.

7. Minn guð! þú frá mjer vannst ei víkja Á vegi lífs þeim farinn er. Já þó mig nái syndin svíkja, Samt hyggur auga þitt að mjer. Og nær jeg til þín fallinn flý, Þitt föðurhjarta gleðst af því.

8. Sá dagur líður ei til enda Að ekki glöggt jeg megi sjá, Hvernig sem blaðið vill sjer venda, Og verða hvikul lukkan má, Að þín föðurleg ást og náð Yfirgnæfir allt mannlegt ráð.

9. Ó drottinn! þjer jeg þakkir segi, þú sem af gæzku leiðir mig, Og heldur mjer á himna-

vegi Svo hjálpsamlega í nánd við þig, Að í hæðinni eg fæ sjeð Ástríki þitt og föðurgeð.

10. Ekkert, minn guð! jeg annað hefi En ástarþökk af hjartans rann; Þó líf og sálu þjer jeg gefi, þetta svo lítt jeg efna kann. Elskufullt þetta áform mitt Ekki forsmái veldið þitt.

## 11. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Guð vor faðir á himnahæðum Heiður, vegsemd og lof sje þjer! Hver fær skynjað þá gnótt af gæðum, Góðgirni' og miskunn þín oss ljer? Hvað stundu þiggjum einni á Enginn dauðlegur telja má.

2. Þó yfir allt sú gæzka gnæfir, Gafst oss að föður sjálfan þig; Já allt vort böl og sútir svæfir Sú náð og mildi föðurleg. Blessaður sje vor bróðir sá, þann boðskap flutti jörðu á.

3. Þín föður-raustin dag frá degi Drottinn! svo hljómar skært og blítt: Mín góðu börn! mjer gleymið eigi, Geymið mín orð, og rækið títt; Hlýðnin við mig hún lífið ljer, Leiðin til dauðans syndin er.

4. Þitt orð í voru helga hjarta Heilagi faðir! æ og nú; Ávexti þess lát á oss skarta, Oss alla styrk og blessa þú; Lát oss þjer helga líf og önd, Leið oss við þína föðurhönd.

## 12. Sálmur.

Lagið: Guð miskunni nú öllum oss.

1. Heiðrum guð föður himnum á Hjartans fögnuði meður; Prísum hans miklu miskunn þá, Með hverri oss hann gleður. Já, mikla vernd og mikla náð þú mildi guð oss sýnir; Hátt lofað sje þitt hjálpar-ráð Og helgir vegir þínir, og gæzkan allt sem krýnir.

2. Unn oss með lotning æ sem ber, Í eining, friði og náðum, Að dýrka þig og þjóna þjer; þjer, sem mikill í ráðum Og voldugur í athöfn ert, Eilíf sje vegsemd framin; Æ guð og faðir vor þú vert Voldugi drottinn! amen! þjer sje dýrð. Amen, amen!

## 13. Sálmur.

Lagið: Einn Guð þjer allir prísið.

1. þakkið, þakkið þjer drottni, því hann svo góður er, Hans aldrei hrósan þrotni, Hans miskunn eilíf er; Sanni það sjerhver þjóð: Allir, sem elska drottinn Eilífan beri vottinn, Eilíf er gæzka' hans góð.

2. Gott er á guð að treysta. Hvað gildir mannleg stoð? Já eitt er æ hið bezta: Öruggt að vona á guð; Hann einn er hjálparinn! Óvini alla hrekur, Að sjer guðrækna tekur, Og sendir sigurinn.

3. Hann er vort hæsta góða, Huggan og styrkurinn, Hann er hjálpræðið þjóða, Heilagur guð

drottinn. Um gjörvöll lífsins lönd, Í köldu dauðans djúpi, Dimmunnar sveiptu hjúpi, Hans drottnar dýrðleg hönd:

4. þetta er dýrðar dagur, Drottinn vor gaf oss hann, Góður, frábær og fagur, Fagni því sjerhver mann. Ó herra hjálpa þú! Æ lát oss heillum halda; Hjá oss um aldir alda Í náð og blessan bú!

## 14. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Lifandi guð og ljóssins drottinn, Í ljósi skæru' er hulinn býr, Um þitt sannleiks valdið vottinn Voldugan bera lög þín dýr. Sannleik fylgir sjálfur þú, Sannleiks veran góð og trú. Vald þíns helga sannleiks sanna Samvizkan og hjörtu manna.

2. þína sannleiks hótan hörðu Hræðast verður Sjerhver mann. þú ert herra' á himni' og jörðu, Hvergi neinn þjer felast kann. Boðið þegar brýt jeg þitt, Brjóstið kalda titrar mitt Fyrir sannleiks þrumu þinni þar sem hulin dunar inni.

3. Raust þíns sannleiks líknsöm líður Lifandi guð! um hjartað mitt, Mjer þá föllnum blítt þú býður Blessað föðurskautið þitt. Fyrirheitin fögur þín Fögnuð kveikja' í brjósti mín, Og særða láta sálu finna Sannleiks kraptinn orða þinna.

4. Allt hvað kunngjört oss þú hefur Eilífan sannleik finnum vjer, Styrkur sá þitt guðsorð

gefur Glöggvast vitnið æ því ber. Lífsins orðið láttu þitt Lífga' og verma hjartað mitt, Svo eg megi sífellt finna Sannleiks kraptinn orða þinna.

5. Sannleikinn er sannhelg skylda, Sannleiksguð! er höndin þín Rita vann og gjörði gilda Með guðdómsafli' í hjarta mín. Ó að ekkert megni að má Mjer úr brjósti kröfu þá: Sannleik tala, sannleik hlýða, Sannleiks undir merki stríða.

6. Hver ein girnd og hugsan líka, Hversu lítil sem hún er, Sannleik frá er vill burt víkja, Villu og glæpi með sjer ber; Ósannindin hætt og hál Himnafriðnum ræna sál. En guði' að trúa, guði að hlýða Gefur hjartans rósemd blíða.

6. Í grunn skal fyrri himininn hái Hrapa' og jarðarknötturinn En af þínum orðum nái Eitt að bregðast drottinn minn. Þau eru eilíf eins og þú, Óbreytanleg, sönn og trú. Sjálfum þjer þú sízt fær neitað, Hinn sanni skaltu' um eilífð heita.

## 15. Sálmur*.

Lagið: Mjög árla uppi vóru.

1. Þú herrann herskaranna, Sem hæðum byggir á, Ósvífni og illsku manna Ei láttu sigur fá. Nær viltu vald þitt sýna, Svo vonzkan gjörist hljóð, Og hátign hæða þína Svo hætti guðlaus þjóð?

---

*) Sbr. 94. Davíðssálm.

2. Snörur þeir ótal egna, Einföldum búa mein, Ekknanna grát ei gegna, Gleðjast við aumra kvein; þeir spara ei hroka og hrekki, Hælast með sjálfum sjer, Og segja': „hann sjer það ekki, Sem uppi' á himnum er“.

3. Ætlið þjer ei hann sjái, Sem augað skapa vann, Og heyrt sá ekki fái, Sem eyrað planta kann? Hann sjer og heyrir bæði, Hans hegning fellur stríð, sem stormsins óvænt æði, Yfir rangsnúinn lýð.

4. þú, herra! hvað sem gjörir, Helgur og rjettvís ert; Huggunin vor það veri, þá vonzkan mein fær gjört. Sannleika' og rjett um síðir þú sigri lætur ná; Sá þjer af hjarta hlýðir, Heiður og laun fær þá.

5. Gegn öllu vonzku valdi, Styrk, vörn og skjöldur er Vor guð um allar aldir, Á hann því treystum vjer. Í hættu og hvers kyns vanda Hann gefur styrk og ráð; Hrelldan og hræddan anda Hressir með sinni náð.

6. það skulum aldrei efa, þótt óvænt þyki' um hríð, að sigur guð mun gefa Góðu málefni um síð. Vort athvarf, hjálp og hreysti Er hann í lífi og deyð; Heill sje þeim honum treysti, Hans hjálpar þolinn beið.

---

# 3. Sköpunarverkið.

## 16. Sálmur.

Lagið: Til þín, heilagi herra guð!

1. Þú lífsins faðir lífið mjer Ljenað í fyrstu hefur; Allt hvað mjer gagn og unan ljer Ást þín og náð mjer gefur. Já dupt og aska eg þó sje, Allt gott þú lætur mjer í tje, Almættis undrum vefur.

2. Guð minn! þú anda gafst mjer þann, Er guðdóms mynd ber þína, Á jörðu fundið fær ei hann Fullnaðar unan sína; Hann á og þráir æðri byggð, Hvar algjör vizka finnst og dyggð, Og líf sem aldrei dvínar.

3. Fagran þú líkam fjekkst mjer ljeð, Furðuverk þinna handa, Reglu og blóma búinn með Bústað svo háleits anda. Eyrað mitt heyra' og augað sjá þín ótal dýrðar verkin má, Túngan þjer vegsemd vanda.

4. Lofaður vertu', er líf gafst mjer, Lífsins guð allsvaldandi! Hjálpa mjer svo til heiðurs þjer Hverja lífs athöfn vandi, Unz öllum böndum fríuð frá Mín frelsuð önd þig skoða má Og dýrka lífs á landi.

## 17. Sálmur.

Lagið: Jesú Kristi þig kalla' eg á.

1. Er eg ei meira, ó minn guð! En ormur í

foldar skauti? Lífsnautnin ein mjer ákvörðuð, Æfinnar gleði' og þrautir? — Ó! nær sjer lyptir upp til þín Önd mín, á vængjum hugar, Er bönd ei buga, Fullsælu von mjer fegri skín Frá hinum almáttuga.

2. Náð þína, vizku' og veldis mátt Vallarins blómstur innir; Stjarnanna dýrð um dökkva nátt, drottinn! þitt nafn mjer kynnir. Já þúsund röddum veröld við Víðfrægir þig og segir: Um eilífð eigi þín forsjón, speki og blessan blíð Bregðast nje þrjóta megi.

3. Sælu takmarki sínu hjer Sál mín þó ekki náir, Hún leitar þess sem æðra er, Æðri sæld jafnan þráir; Menntast hún hjer og æfast á, Að eins um stund hjer gistir, Svo sælli vistir Hæfileg verði á himni að fá Hjá drottni Jesú Kristi.

4. Herra! þín raust í hjarta mjer Heilög til kynna gefur Hvað rjettvíst er og þakknæmt þjer, Og þú hvers af mjer krefur. Æ! styrk mig henni hvert eitt sinn Hlýðni og lotning sýna, Og tryggð ei týna Við þig, svo fái' eg faðir minn Fulltreyst á miskunn þína.

5. Rósamur geng jeg guð minn! þá Gegn lífsins huldum dögum, Ekkert mjer vinna mein því má, Mínum þú stjórnar högum; Öruggur, þegar æfin þver, Í þínar föðurhendur Sál 'mína sendi. Jeg veit af þinni ætt hún er, Aptur til þín hún vendir.

## 18. Sálmur.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Kenn þú mjer, drottinn mildi minn! Að meta og virða kærleik þinn. Þú gafst af líknsemd lífið mjer, Já líf sem ekki dauðlegt er, Og lífs von þessa ljezt mig fá, Svo lífsins stefnu skyldi jeg sjá.

2. Það allt þín gæzka, líf sem ljær, Með lífs þú mettað unan fær; Hver skepna finnur sæla sig, Og sælu drykkjuð prísar þig, Og neytir glöð þeim auði af, Þitt örlæti sem henni gaf.

3. Þann vitnisburð þín hefur hönd, Ó herra! í minni ritað önd: Að takmark þó, sem æðra er, Þín áskapt hafi gæzka mjer En auga skynja mitt hjer má Og mörkin tímans yfir ná.

4. Með gáfu þeirri, er gott fær sjeð Og greint frá illu skynsemd með, Þá velgjörð náð þín veitt mjer ljet, af vilja frjálsum að jeg get Þær dyggðir æft, sem þóknast þjer, Ef þakklátt hjarta fram þær ber.

5. Sú meðsköpt þörf, sem eg hef á Af öðrum mönnum styrk að fá, Hún áminning er augljós þín: Að elski' jeg þá sem bræður mín, Og skuld það eje við þig og þá, Sem þeim til gagns jeg vinna má.

6. Nær gleði og lán þú gefur mjer, Mjer gleðja og styrkja aðra ber; Nær líkn þjer finn og hugg-an hjá, Jeg brelldum líkna og svala á, Og breisk-

um veita björg og ráð, Nær ber mig þín á hönd-um náð.

7. Þú gafst mjer hjarta góðvikið, Svo grát hins auma klökkni við, Og hagkvæmlegar hendur tvær, Svo hjálpar þurfum rjetti' eg þær, Og til þess gafstu málið mjer, Að mál þess túlki', er saklaus er.

8. Heilög er skylda' og margföld mín, Því margt mjer veitti gæzkan þín, Ó guð! en veikt er megnið mitt, Ef mjer þú lið ei veitir þitt. Með þínum styrk jeg vinna vil Þau verk, er mig þú skaptir til.

## 19. Sálmur*.

Lagið: Heiðrum vjer guð af hug og sál.

1. Þig, herra! sálin heiðri mín, Hvað vegsamleg er dýrðin þín, Og fegurð ljóssins frábærleg, Er fati líkt þú skrýðir þig. Það skín af þínum skrúðafald, Skaparinn dýri! ó þitt vald: Himin út þandir þú sem tjald!

2. Þín máttarhönd, sem háan rann, Hvelfingu loptsins, mynda vann, Að vagni skýin velur þjer, Á vængjum storma' um loptið fer. Eins eru vindar englar þín Og elding sú með leiptri skín; Hún hlýðir þjer sem herra sín.

3, Hver grundvöll jarðar gjöra vann, Svo ganga úr skorðum aldrei kann? Með hafi hún eitt sinn hulin var, Svo hærra' en fjöllin vatnið bar.

---

*) Sbr. 104. Davíðsálm.

Guð! fyrir þinni þrumu-raust þegar í felur vatnið skauzt, Fjall og dalur úr bylgjum brauzt.

4. Þú hefur vegu vötnum sett, Svo víki' ei yfir takmörk rjett, Og hnött vorn aldrei hjer eptir þau hylji, svo sem gjörðu fyr. Þú lætur spretta lækjum í Lifandi vötnin fersk og ný, Ei skepnur svölun skortir því.

5. Þú hæðum vökvar fjöllin frá, Og fögrum landið mettast þá Ávöxtum þeirra verka af, Er veldis hönd þín örlát gaf; þá sprettur gras, er fóðrar fje, Og fæðslan mönnum leggst í tje, Svo næg af jörðu saðning sje.

6. Þú tunglið, drottinn! til þess bjóst, Að tímaskil það kenndi ljóst, Og sólu vora á sama hátt, Er sífellt myndar dag og nátt; Hún sezt, og ró oss rennur þá; Hún rís, og hressir upp menn stá, Og allan daginn iðjað fá,

7. En hafið mikla þetta þá, Þar skipin ganga stór og smá! Það grúa skepna' er albyggt af, Þitt almætti sem lífið gaf. Þær allar vona upp á þig, Að alvöld hönd þín föðurleg Í tíma muni metta sig.

8. Ó drottinn! hvað þín eru verk Svo undramikil, góð og merk, Af þinnar gæzku auðlegð er öll jörðin full, það skynjum vjer. Um eilífð vari vegsemd þín, Við þig gleður sig öndin mín, Þín dýrð af öllu skært fram skín.

## 20 Sálmur.

Lagið: Tunga mín af hjarta hljóði.

1. Ó hvað mörg og mikil gæði Mönnum Drottinn! veitir þú! Sköpun vor og viðhald bæði Votta hve þín gæzkan trú Að oss lýtur; Lækjum flýtur Lífsuppspretta til vor sú.

2. Þíns vjer erum guðdóms gneistar, Gæddir lífi anda þíns; Hugur vor því fljúga freistar Föður til í hæðir síns. Ó þá stærstu Heill og hæstu: Höfund lífs jeg þekki míns!

3. Þú vor guð ert allt í öllu; Eilíf gæzka og máttur þinn Um djúpin, grund og himna-höllu Helgan spilar lofstír sinn. Skepnan dansar Öll og ansar: Ó „þú mikli Drottinn minn!“

4. Unn mjer faðir! ávalt hlýða Öllum vilja og boðum þín. Þjer hvað þóknast ljúfur líða, Líf þú átt og sálu mín. Allar þjóðir einu hljóði Upp þjer hefji lofgjörð sín.

## 21. Sálmur.

Lagið: Margt er manna bölið.

Himnafaðirinn fríði, Er fegurð, nægtum prýði, Auðgaðir allan heim. Í björtum sumarblíðum, Og bistum vetrarhríðum, Um hauður og himnageim, Vor og haust, Voldug raust Þúsundrómuð þannig hljómar: „Þjer sje dýrð alvaldi!“

# 4. Endurlausnarinn og endurlausnin.

## 22. Sálmur.

Lagið: Guð vor faðir vjer þökkum þjer.

1. Blessað sje Jesú blessað nafn, Blessað á jörð og hæðum: Háleitt, dyrðlegt og heilagt nafn, Himneskum ríkt af gæðum. Af Guði sendur oss hann er, Eilífa dýrð með honum vjer Allir svo öðlast næðum,

2. Öll knje sig fyrir hátign hans Á himni og jörðu beygi, Á veldi myrkra verði stanz, Og veldi Jesú hnegi. Um eilífð standa orð skal það: „Æðst Jesú nafn sje háblessað!“ Og himnar amen segi.

3. Hans nafni myrkrin flýja frá, Fáráðum ljós það gefur; Í því sturlaður frið skal fá, Fögnuð sá hryggðin vefur. Hans nafn í djúpan dauðans rann Dýrðlegan flutti boðskap þann: „Sálin deyr ei nje sefur.

4. Heiðri þig jörð og himininn, Herrann minn, Jesú góði! Í faðm vjer allir föllum þinn, Frelsari vor og bróðir; Fyrirgef oss og frelsa' af synd; Frelsa og íklæð þinni mynd, Ó Jesú, allar þjóðir!

## 23. Sálmur,

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Ó Jesú trúar augum með Inndælt er mjer

að fá þig sjeð. Æ! hvað þú fagurt fyrir mjer skín, Fótsporin vil jeg rekja þín, Um villuhættan heimsins stig himinsins til þau leiða mig,

2. Blessað í heiminn barstu ljós, Blessunar geislum út það jós, Við herinn myrkra' á hólm þú gekkst, Hetjan sannleiks! og unnið fjekkst. Fallinna vin og frelsarinn, Faðminn ástar þeim breiddir þinn.

3. Fyrir guðs dýrð og frelsi manns Fátækt þú leiðst og þoldir vans. Frá fæðing þinni' og fram í deyð, Já! forsmán, ofsókn, hatur, neyð. Með lífs og sálar sárri pín Seinast endaði hjervist þín.

4. Í grasgarðinum guðs son dýr Grátleg þitt hjartað angist lýr, Og á Golgata ógn þá barst: Yfirgefinn af guði varst. Sigrandi hneigðir höfuðið þó Háleitri meður guðdóms ró.

5. Þannig var heilög hlýðnin þín Harðlega reynd með alls kyns pín! Þannig þú harma þoldir skúr, Þó varst guði til dauðans trúr. Himnesk þjer ást í hjarta brann, Heim svo frelsaðir glataðan.

6. Þú, góði hirðir guðs á jörð, Gafst lífið fyrir þína hjörð, Baðst fyrir þeim, er þjáðu þig: Þannig var ást þín guðdómleg! Anda blessaðan uppgafst þinn Í elsku trúr við föðurinn.

7. Minn Jesús, þín var æfi öll Í orði og verki kenning snjöll: Að elska guð og alla menn; Innræt mjer það og stunda kenn, Svo fái' í ást og fastri trú Fullkomnað skeiðið eins og þú.

## 24. Sálmur.

Lagið: Margt er manna bölið.

1. Jesús, helgi hirðir! Hjarta mitt þig virðir, Og ann þjer heitt og hýrt. Meiri öllum mönnum, Mynd af guði sönnum, Eilíft „orð“ hans dýrt! Traust mitt er Allt á þjer, Ljósið hreina, Læknir meina, Lífs og vonar brunnur.

2, Undir umsjón þinni Önd' er borgið minni Hjer og um eilíf ár. Líf og lukku mína Legg jeg í hendur þínar, Og allt hvað yfir mig gár. Hjartað þitt Hjartað mitt Að sjer taki, Yfir mjer vaki, Svo engin snerti pína.

3. Jesús er minn auður, Ekki' er jeg því snauður, Þó veraldar lán sje valt. Jesús gleði gefur, Til guðs mig tignar hefur, Jesús er mjer allt. Hans mjer ást Aldrei brást. Heitt vil jeg unna Af hjartans grunni Honum í lífi og dauða!

4. Vei, þjer vesæll heimur, Vei, þjer synda glaumur, Mig sem tældir títt! Vei, þjer syndin svarta, Er saurgaðir mitt hjarta, Af guði gjört svo frítt! Lausnarinn Ljúfi minn, Er sár mín græddir, Sekt af bræddir, Jeg sver þjer hlýðni nýja!

## 25. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

1. Jesús er minn ástvin bezti, Engan líka sjer hann á. Ætti jeg þá eins og flestir Ástvin þessum hverfa frá? Ónei! engan mun eða mann

Meta skal jeg á við hann. Aldrei neitt svo okkur skilji, Einn skal vera beggja vilji.

2. Hel fyrir mig hann hefur liðið, Hver fordæma vill mig nú? Hann hefur fyrir mjer föðurinn beðið, Fyrirbón mjer nægir sú. Hver vill vera móti mjer? Mig hefur Jesús kjörið sjer Enginn þann frá honum hrekur, Hann í sína vernd er tekur.

3. Ekki líf, og ekki dauði, Englar eða tignin há, Dýrðin heims, nje daprar nauðir Draga skulu mig þjer frá; Ekki slíta ástir þær, Í og fyrir þig sem sem vær Öðlazt höfum, ástvin góði, Árnaðarmaður vor og bróðir!

## 26. Sálmur.

Lagið: Upp á ræningjans orð og bón.

1. Jesús! er svalar sálu mín Með sannleiks orði og gæzku þín. Allt gott eg finn þjer einum hjá, Mjer ætíð Jesús vertu hjá!

2. Verður að sönnu' eg ei þess er, Að óhlýðnum þú sinnir mjer, En þig þó vona eg vil á, Mjer ætíð Jesú! vertu hjá.

3. Þú breiskleik veizt og vanmátt minn, Ó! veit mjer hjálp og styrkleik þinn; Því þig eg vona einan á, Mjer ætíð Jesús! vertu hjá.

4. Lát mig ei svíkja hold nje heim, Mitt hjarta og sálu stöðugt geym; Því þig eg treysti einan á, Mjer ætíð Jesús! vertu hjá.

5. Æ! hvað jeg opt í syndum svaf, Og sannleiks götu villtist af; Nú vil eg vakna' og vera þjer hjá; Mjer vík ó Jesús! aldrei frá,

6. Mín aðstoð vertu' og athvarf mitt, Og erfa gef mjer ríki þitt; því þig jeg vona einan á; Mjer ætíð, Jesús! vertu hjá.

7. Hnoss vertu, Jesús! hjarta míns, Mjer hjálp og náð veit anda þíns, alls nægtir hef' eg öðlazt þá; Mjer ætíð Jesús! vertu hjá.

## 27. Sálmur.

Lagið: Konung Davíð sem kenndi.

1. Ó guð! vjer allir erum Adams börn sakfallin; Sekt hans og blygðan berum, því brjótum vilja þinn. Drambsemi' og fýsnin flá Enn tæla oss og segja: „Ekki munuð þið deyja, þó bregðið boði frá“.

2. Enn synda gleðin svíkur Svipul og banvæn mjer; Friðurinn frá mjer víkur, Fallinn þegar jeg er; Bert stendur brot mitt þá. Hljómar í hjartans leyni, Hvar sem jeg felast reyni, Guðs röddin helg og há.

3. Horfið er Edens yndi, Er fyr jeg saklaus naut, Gleðin mjer gekk í skyndi, þá guði' jeg móti braut; Og þó jeg hreppi hjer Hagsæld af hefð og auði, Að harma verður brauði, Guðs nær jeg óvin er.

4. Allt hold því er af jörðu Að jörðu verða

má, Sálin í haldi hörðu, Harmþrungin vakir þá, Sí-grætur sína neyð; Lifir þó líkaminn deyi, Lifir til þess hún megi Eilífum deyja deyð.

5. Ó guð! heimarnir hlýða Heilögum drottni sín; Einn megnar móti' að stríða Maðurinn vilja þín. Öll voru verk þín hrein. Af vorum vilja fæðist — vitið það menn! og hræðist — Vonzkunnar gjörvöll grein.

6. Eigum vjer, guð minn góður! Að glatast þá hjálparlaust? Stendur þinn himin hljóður, Harðluktur vorri raust? Á jörðin inndæl þín Til glötunar upp oss ala, Og örvæntingar kvala? Ó hvílík eymd og pín!

7. Ónei! vort bölið bætti Blessað kvinnunnar sáð, Glataða og grátna kætti, Guð minn! þín eilíf náð; Jesús kom jörðu á; Himnanna hrærðist kraptur, Hún er nú blessuð aptur, Öll þjóð skal frelsi fá.

8. Ó Jesús! sem oss alla Einn frelstir, styrk þú mig, Lát mig ei framar falla, Fastlega hald við þig, Upplýs og helga hjer, Svo lífs þá linnir stríði Leiðast megi' eg um síðir Í sælu með sjálfum þjer.

## 28. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó, hversu lengi á mitt hjarta Örmagna þrá og skorta frið? Og augað leita ljóssins bjarta Löngunarfullt og grátþrungið Um ljóssins myrkvuð löndin há, Og lífsins dimmu stigum á?

2. Hugur úr myrkri' ei hefjast náir, Hjólhvikull vilji' ei styrkjast kann, Og það sem hjartað eptir þráir Einatt fordæmir samvizkan, Sem í helfjötri hart jeg brýzt Himins og jarðar milli slízt.

3. Sitt fall frá guði' og fjarlægð hlýtur Mín fjötruð gráta' og vesæl önd; Sitt föðurhús í fjarska lítur, Fær þó ei slitið af sjer bönd; En sárheit löngun frelsi' að fá Frelsis von henni bendir á.

4. Óskýr minning um „Eden“ missta, Andans grunur um sælu þá, Er sálin eptir þráir þyrsta: Þetta mjer bendir lífs veg á, Sem heimi kunnur orðinn er, Orð guðs og spárnar þýðir mjer.

5. Himins, jarðar og hjartans bæði Helgar spásagnir rætast skýrt; Minn efi flýr, guðs andi ræðir: „Upp er nú runnið ljósið dýrt. Hið fallna mannkyn fagna þú: Þitt föðurhús er opnað nú!

6. Sannleik, friðþæging, sátt og mildi Guðs sonur færði' oss himni frá, Svo helgúð verða hjörtun skyldi, Og helgum anda bústað ljá. Dýrð drottins eðli mannsins með Mildi og blessan tengjast rjeð.

7. Himneskum innst í helgidómi Heilagur guðs son lausn mjer fann; Fagna jeg nú þeim friðar rómi, Að frelsi nýtt hann mjer ávann, Svo lifa' eg skuli' og líkjast sjer, Og líf í guði veitast mjer.

8. Hvað sæll, hvað sæll er sá þig þekkir, Hinn sanni guð, og frelsarann! Því lífs er vegur ann-

ar ekki En sá sem Jesús birta vann. Já, nafn þitt Jesús! alleitt er, Sem eilíft líf og blessan ljer.

## 29. Sálmur.

Lagið: Rís upp mín sál að nýju nú.

2. Sjá þinn konungur kemur nú, Guðs kristni! gleðst og fagna þú, Hljómfagra still á strengi. Hans arfleifð fríð Er veröld víð, Hans veldis takmörk engi.

2. Hann sannleiks dýrstan boðskap ber, Hann boðar náð og mildi þjer, Hvert þjónn eður herra heitir. Hann boðar frið Og hjálpræðið, Og huggun grátnum veitir.

3. Öll veröld syngi: „æðsta dýrð Sje almáttugum guði skýrð“; Öll guðs börn saman safnist, Og blessi þann Oss birtast vann Í blíðu drottins nafni.

---

# 5. Jesú fæðing.

---

## 30. Sálmur.

Lagið: Í Babýlon við v. st.; eða: Í dag eitt blessað b. e.

1. Kom blessuð, stundin blíð og góð Hins bjarta morgunroða, Er höfðu forðum heimsins þjóð Guðs helgir spámenn boðað. Þú mikli dýrðardagur sá Drottins velþóknan jörðu á Færir og frið-

inn sanna. Ungir og gamlir syngið sætt, því sjáið, nú er barn það fætt, Sem mest er allra manna.

2. Ímynd Guðs veru er hann skær, Og þó af kvinnu fæddur; Glaður til til hans því flúið fær Fáráður hver og mæddur. Hann kemur Guðs hinn góði son Að gefa heimi frið og von, Og föllnum frelsi veita; Aðlífga hjörtu hörð og dauð, Og hjörtu verma' af kærleik snauð, Með ástar ylnum heita.

3. Hann á að tárast heitt sem vjer, Svo hann oss sampínst fái; Og oss, þá hryggð og eymdin sker, Síns anda styrk hann ljái. Oss föður síns hann sýnir ráð, Með sætleiks dropum af hans náð. Vorn harma bikar bætir. Hann píslir líða' og líflát á, Svo lífsvon eilíf Guði hjá Oss færi frið og kæti.

4. Sinn son oss drottinn senda vann. Svo sælu mættum erfa, Sú náðarsól, er ný þá rann, Ei neitt sinn skal oss hverfa. Vor hirðir Jesús orðinn er, Svo allir hlýðum raust hans vjer Og eitt sinn í hans ríki, þar ei er framar eymd og synd, Vjer íklæðumst hans dýrðarmynd, Á himni honum líkir.

## 31. Sálmur.

Lagið: Guði lof skal önd mín inna.

1. Nú sigrar trúin trausta, Sem trúuð guðs börn lifðu í: Undir hljóm engla rausta Upp rennur morgun-stjarna ný. Sjá yfir herrans húsi Hýrt ljómar blysið það; Þjóðanna flokkar fúsir Því flykkjast

ljósi að. Nú endar nóttin svarta, Nú byrjar dagurinn; Guðs ljómar birtan bjarta: Borinn er frelsarinn!

2. Vor Guð, sá herrann huldi, Sem heimur fyr ei þekkja vann, Í sannleik ást og mildi Með oss nú byggja virðist hann. Frelsari' af himni háum Í heiminn kominn er; Hans dýrð nú sjálfir sjáum Sem sonar hins hæsta vjer. Guðs sonur gjörðist maður, Guðs mildi' er kunngjörð heim. Ó heimur! gjörstu glaður Guðs af dásemdum þeim.

3. Ó gleðst, ó gleðst mitt hjarta! Ó gleðst og syngdu lof og prís þeim ljóssins lávarð bjarta, Sem lauk upp fyrir þjer Paradís; Ó gleðst, að Guð hinn mildi Nú gjörði sáttmál nýtt, Og öllum unna vildi Sitt auglit skoða blítt. Heiður sje Guði á Hæðum! Hans friður jörðu á! Hans búi gnægt af gæðum Og góðvild mönnum hjá!

---

# 6. Jesú pína og dauði.

## 32. Sálmur*.

Með sínu lagi.

1. Jesús Kristur vjer þökkum þjer, þú frelstir oss frá pínu; Byrðina vora barstu hjer, Og blóði út helltir þínu, því þú elskaðir oss svo kært — sæll er sá því nam trúa — að oss til lífsins fengir fært, fórst sjálfur veginn að búa. Heiðir þú

ekki útgefið þitt blóð og borgað fyrir oss alla, þá hefði gjörvöll heimsins þjóð Hlotið í glötun falla. Jesús Kristur! vjer þökkum þjer, Vjer lofum þig, Vjer heiðrum þig!

2. Engin finnst miskunn æðri' en sú Af Guði höfum vjer þegið. Ó, hvað oss þvílíkt ángrar nú, Að af hans hvurfum vegi. Ávalt oss það ógna skal Hans óblíðu bárum þunga, Eilíf því hlaut að koma kvöl Yfir gamla menn og unga. En Guðs var ást og góðvild stór, Gjörði oss miskunn veita; Son sinn híngað sendi til vor Að sálum vorum að leita. Jesús Kristur! vjer þökkum þjer, Vjer lofum þig, Vjer heiðrum þig.

3. Á þetta að gleðja alla oss Og ávalt skulum Guð lofa; Annars æskir hann ei en þess fyrir ástverk sín að hafa. Síðan forðumst syndir vjer Son guðs því ljet sig pína. Hans ljúfa boði hlýðum hjer: Hver öðrum elsku' að sýna; Þeim sem oss móðga gjörum gott; Guð við oss þann veg gjörði, Sjeum vjer kristnir sýnum þess vott, Að samlynd hjörtun verði. Jesús Kristur! vjer þökkum þjer, Vjer lofum þig, Vjer heiðrum þig.

## 33. Sálmur *.

Lagið: Eilíft lífið er æskilegt.

1. Hugsa þú maður hverja stund Um herrans miklu náð, Sem að af föðurs ljúfri lund Hans líkn þjer hefur tjáð. Sakaður varstu syndaþjón, Seldur

í dauðans pín, Bægðu frá drottins blíðu sjón Brot og íllvirkin þín. Þá birti hann sitt heilagt ráð, Svo heimi veittist frelsi og náð. Elskulegasta soninn sinn Úr sínu skauti gaf, Lausnari' að yrði ljúfur þinn, Og leysti þig hættu af; Þar fyrir honum þakkir inn, Og þetta í minni haf.

2. Hugsa þú um hvað harða pín Og hörmulegan deyð Græðarinn fyrir gjörðir þín Svo góðfúslega leið. Svikinn var hann af sínum þjón, Og seldur grimmum lýð. Fyri byskups leiddur bundinn sjón, Barinn þar langa tíð; Hæddur og lýttur hreinn og skær, Með hrákum spýttur son guðs kær; Þyrnikórónu krýndur með, Sem kramdi hans höfuð bjart. Á krossins harða hengdur trjeð, Svo hvergi jörðu snart; Af elsku leið hans gæzku geð þá grimmu píslar art.

3. Illvirkja mitt á milli hjekk Megalgangarinn svo, Honum til smánar fólk er fjekk Fundið þar versta tvo; Allt eins og væri efstur hann Í öllum pretta sið, Banasekur og blindur mann, Er bryti helgan frið. Þó var sú grimmdin þeirra mest, Þegar Guðs son á krossi ljezt, Ljetu þeir ekki lynda sjer þá líkams písl hann bar, Heldur skapraun og háðung hver Honum var aukin þar; En hann, sem þetta böl allt ber, Biður þeim miskunnar.

4. Með klökku hjarta heyrðu nú Og hugleið, kristinn mann! Hvað furðu dýr var fórnin sú, Sem frið þjer kaupa vann. Harla vel færðu hjer

af sjeð, Hvað hætt er misgjörð þín, Hvað stórum Guð þar móðgast með, Hvað megn er straffsins pín. Allan því hata synda sið, Og svo í trú þig hugga við, Að sonur Guðs með sinni pín Af sekt þig hafi leyst, Og bæti fyrir bresti þín Betur en sjálfur veizt, Þar fyrir honum þakkir sýn, Og þessari kvittan treyst.

5. Elskaðu guð af öllum hug, Sem unni þjer svo heitt. Nær þú sjálfur í synda bug Sást ei hjálpræði neitt; Heilagrar ástar örmum vef Endurlausnara þinn, Sem lífs þjer veitti ljúfa gjöf, Og leiðir í sælu inn. Heilagan anda af hjarta bið Um hreina trú og öruggt lið, Að lifað getir alla tíð Sem ást þvílíkri ber, Óþreyttur heyir orku stríð við allan myrkra her, Svo hjartans verði heimvon blíð, Þá hjeðan burtu fer.

6. Heiður og vegsemd háleit sje, Minn herra Jesú! þjer. Innileg skal þjer elska' í tje Um eilífð bæði' og hjer Fyrir þá heitu hjartans ást, Er hafðir þú til mín, Þegar mig fallinn sekan sást Í synd og þyngsla pín, Að eymdir mínar á þig tókst, Og með synd minni písl þjer jókst, Föðurnum hlýðinn ljezt þitt líf, Lægðir óvina mátt, Mýktir svo allt mitt eymda kíf, Eilífa bjóst mjer sátt; Dýrkeyptum mjer nú drottinn hlíf, Og dragast ei frá þjer látt'.

## 34. Sálmur.

Lagið: Öll náttúran enn fer að deyja.

1. Sjáið Jesúm kvölunum kraminn, Krýndan þyrnum, svipunum laminn; Alblóðug er ásýnd hans fríða, Undir djúpar grátlega svíða.

2. Sjáið laun hins saklausa' og góða, Sonar guðs og frelsarans þjóða, Alla grátna' er gæzkunni valdi, Gjörvallt mannkyn ástfólgið hafði.

3. Svo var enginn saklaus á jörðu Sárlega kraminn píslunum hörðu; Jesús! öll á hold þitt og hjarta Heimsins lagðist illgjörðin svarta.

4. Ó! hvað vorar illskur þig þvinga, Þitt enni blessað þyrnarnir stinga; Andlits meir ei bregður þó blíðu En bærir krans af rósunum fríðu.

5. Hæddur, kvalinn, hulinn í blóði, Þú hnígur máttlaus, frelsarinn góði! Lostinn þó svo logandi pínum Líknar biður kvölurum þínum.

6. Guðdómlega grátfagra sjónin, Guðs hinn trúi' á kross negldur þjóninn! Laun ei nema á himnum hann hefur, Heimi líf og blessan þó gefur.

7. Sjá hvað Jesús hátt vill oss hefja; Heimsins launa' ei megum vjer krefja; Krossins veg oss þolnum ber þræða, Þreytumst ei, hann liggur til hæða!

8. Trúum Jesú, fylgjum hans fetum, Fremur öllu dýrð himna metum. Af grímu spretta gulldagar ljósir, Gráts af þyrnum fagnaðar rósir.

## 35. Sálmur*.

Lagið: Dauðans þungu kraminn kvöl.

1. Kvalinn trega krossi hjá Stóð og grjet hin mæta móðir; Sonur hennar hjekk þar á, Hlaðinn undum, stokkinn blóði. Hart hún stundi' af harmi megnum, Hennar önd smó sverð í gegnum

2. Ó, hvað döpur, ó hvað hrelld! Hins eingetna var blessuð móðir, Þar hún horfði sútum seld Á sonarins fræga píslaglóðir; Holdið skalf í hryggða gjósti, Hjartað skarst í þrútnu brjósti.

3. Herrans móður hver fær sjeð Harma píslum þessum undir, Heitt svo gráti' ei henni með? Hver er sá ei geti fundið Hlut og taki' í hörðum pínum, Hún sem ber með syni sínum?

4. Heimsins fyrir synda sekt Sárlega Jesúm leit hún kvalinn; Leit hann svipum særðan frekt, Soninn fríða, guðs útvalinn, Örmagna við andlát stríða Önd hans burt með þjáning líða.

5. Ó, að móðir auðnist mjer, Ástalyndin elskulega! Að jeg líði ásamt þjer, Að jeg særist þínum trega! Ó að Krist svo elskað fái, Að jeg honum þóknast nái!

6. Jesús góði! líf sem ljezt Ljúfur vegna synda minna, Ó að písla megn þitt mest Mætti klökk mín sála finna! Ó að mætti sárt mjer svíða Saklaus þú hvað hlauzt að líða!

7. Meðan lifi minning þín Mjer í hjarta Jesú

---

*) Sbr. latínska sálminn: *Stabat mater dolorosa.*

búi, þá eg freistni þoli' eða pín, Að þínum krossi augum snúi. Guðdóms láttu geisla þína Gleðja og styrkja sálu mína.

8. Drottinn með þjer deyja' eg vil: Deyja synd og ránglætinu! Og í blóðs þíns helgum hyl Hreinsaður lifa rjettlætinu. Ást þín dauðföst í mjer brenni, Allt jeg megna glæddur henni.

9. Jesús! dýrstur dauði þinn Daga lífs míns helgi alla, Von og skjöldur veri minn, Veik nær tjaldbúð mín skal falla. Fyrir hann mjer veittu vísa vist í ljósi Paradísar.

## 36. Sálmur.

Lagið: Sú kemur stund.

Frelsari minn! Sem fyrir mig og alla Ljezt bikarinn Hinn beiska ljúft þjer falla, Og drakkst í botn þá djúpu písla skál: Æ meðan skín yfir mig sólin bjarta Skal unan mín Að elska þig af hjarta, og þóknast þjer.

## 37. Sálmur.

Lagið Jesús Kristur á krossi var.

1. Ó Jesús! þín er enduð pín, það ógna stríð, sem vegna mín Á hörðum krossi háðir. Ei fyr en hjörð var frelsuð þín þig fýsti að taka náðir.

2. Hvíldu nú góði hirðirinn, Er hvergi áttir friðstaðinn, þar höfði' að hallað gætir. Þjer synjar hælis heimurinn, Hellan í tje það lætur.

3. Þú kyrra gröf, þú blessuð byggð, Af blessuðum Jesú ertu vígð; Nær lífs er ljós út brunnið, Jeg sofna glaðar heims frá hryggð, Og hvers kyns armæðunni.

4. Þú fasti svefn, þú fyrna nátt, Frelsarinn gaf, þú takmark átt, þá eilíft líf fer lýsa. Jeg skal sem hann með hjarta kátt úr hvílu grafar rísa.

---

## 7. Jesú upprisa.

### 38. Sálmur*.

Lagið: Kær Jesú Kristi.

1. Þá Kristur kvaldist Á krossi og þoldi pín, Sólin fríða faldist, Fleygði skrauti sín. Jörð sem þeytt á þræði Hin þunga skolfið fjekk, Er dapur í dauðans mæði Drottinn á krossi hjekk. Björgin stundu á foldu fast, Fyrn og undur margfaldast, Hellan sundur harða brast, Á hólminn þá hann gekk.

2. Herforinginn fríði, Frægstur jörðu á, Hann er í hörðu stríði Hvergi vinnast má, Fjendur hrakti á flótta, Er fóru honum í gegn. Barðist alls án ótta, Þó unda dyndi regn. Heilagleikinn hlíf hans var, Hjör sannleikans fagran bar,; Satans bleiku sveit sá skar, Synd og dauðans megn.

3. Hvergi þig hræddi, Herra Jesús kær! Óvin-

ur sem æddi í illsku og slægð frábær. Þú hefur yfir unnið allan myrkra her, Af ástar blossa brunnið Björg að veita mjer, Því er dauðans þrælkun lægð, því er nauðin breytt í hægð, Því er þeim auðin náðarnægð, Sem náðar þyrstur er.

4. Rauð runnin undir Rjettlætisins sól Um stríðar kvala stundir, Er stefndi' í grafarból, Í blessunarfullum blóma Birtist nú á ný, Að sigruðum dimmu dróma, Dýrðar fegurð í. Sælustaður æðstur er Aumur maður fenginn þjer, Þar ljómar glaður herrans her Hærra en ganga ský,

5. Gekk af grafar rúmi Guðs son tignar hár, Sæll þá svipti húmi Sólar roðinn klár. Á páska dýrum degi Drottins engill tjer: „Hjer er herrann eigi, Hann upp risinn er“; Eilíft frelsi oss það fjekk, Upp fangelsi dauðans gekk, Syndahelsis sáran hlekk Sigrarinn braut af mjer.

6. Eg hræðist ekki þó æfi hreppi grönd, Dauðans hörðu hlekkir Halda ei frelstri önd; Hver sem helgun stundar, Hann skal sigur fá, Sá frelsarans feril skundar Frelsarans vegsemd ná. Jesú kýs jeg miskunn mjer Að megi rísa af syndum hjer, Dýrð mjer vís og upphefð er Og eilíf sælan þá.

7. Eg veit ó herra, þó opt sje neyðin hörð, Þegar dagar þverra Og þekst minn kroppur jörð, Synd og eymdir allar, Sem áður þrengðu mjer, Grafast þá gjörvallar, Sú gleði rís af þjer. Jeg

sje til hæða úr sorgardal, Sízt mig hræða gröfin skal, Til æðri gæða svefns úr sal senn því heim jeg fer.

8. Klökkur jeg kalla, Kæri Jesú minn! Upptendri' oss alla Ást og sigur þinn, Lið og lífið sanna Lát oss auma fá, uppgjöf afbrotanna, Og eilífa dýrð þjer hjá. Lof án rýrðar, heiðar hár, Hæsta dýrð og vegsemd klár Sje þjer skýrð um eilíf ár, Æ það verði já!

## 39. Sálmur.

Lagið: Rís upp mín sál og bregð nú blundi.

1. Svo lengi mörk á vörmu vori Vorsólar geislar yljað fá, Svo lengi vellir blóm fá borið, Nær blíðan sumars faðmar þá, Svo lengi klökkvir viljum vjer Veglegi dagur fagna þjer.

2. Í dag rjettlætis sólin sæla, Er sígin var í dauðans haf, Og heimsins vonzku heiptug svæla Hafði gjörtekið ljómann af, Upp rennur nú í nýrri dýrð, Nýjum dásemdar ljóma skírð.

3. Sem blóm að sól vor breiðast hjörtu, Blessaða ljós! á móti þjer. Æ! þínir guðdóms geisla björtu Gegnum oss alla þrengja sjer. Efans og kvíðans ísa megn Ekki fær staðið þeim í gegn.

4. Himneski lífsins herforingi, Herra Jesús er ljezt á kross, Sem dauðans ógnar kvala-kyngi Með krapti vannst en frelstir oss, Á þinni sigurhátíð hjer Heilsum vjer enn og fögnum þjer!

5. Þú hefur oss til lífsins leysta, Vort líf þjer allir helgum vjer, Vor trú á þig skal hug vorn hreysta, Vjer himneskt finnum líf í þjer. Með þjer vjer sigrum synd og deyð. Til sigurs oss og dýrðar leið.

## 40. Sálmur.

Lagið: Þjer mikli guð sje mesti prís.

1. Þú drottinn vor, sem dóst á kross! Þig dýrðar kongur lofum vjer. Þú vannst, þú frelstir alla oss, Er allt með þínum krapti ber.

2. Af dauðanum þú hreifst hans hjör, Braust heljar grindur mola í; Með þjer í sigurs frægstri för Hið frelsta birtist líf á ný.

3. Þú kemur fram í guðdóms glans, Og gullnum ljóma fyllir heim, Og inn í hreysið aumingjans Slær yl og fró af geislum þeim.

4. Sinn lofsöng englar hefja hátt Og heiðra þig, guðs mikli son. Á fold er kæti, friður, sátt, Og fögur ódauðleikans von.

5. Nú gröfin ekki geigvæn er, Þú gistir líka hvílu þá. Þó stærstu fjöll mig hyldu hjer Þín hönd þar megnar til mín ná.

6. Hver lífs á þyrna-ferli fús Þín fótspor þræðir, Jesús minn! Þá eitt sinn grafar opnast hús, Hann á sjer vísan faðminn þinn.

7. Að lifa og stríða líkt og þú, Og lífsins

þannig enda stríð Með anda og krapti út oss bú þú öflug sigurhetjan fríð.

8. Því hver sem með þjer heyjar stríð Hann hreppir með þjer sigurinn, Og hans skal einnig hlutdeild fríð þín himnesk ró og friðurinn.

9. Nær morgni loksins efsta á þú oss af dauðans vekur blund, Og öllum heimsins þjóðum þá Á þinn þú stefnir dýrðar fund.

10. Ó! hvílík mun vor unan þar, Nær oss þinn tignarrómur hreinn Með æðstu mildi ávarpar: „Nú er ei framar dauði neinn“!

## 41. Sálmur.

Lagið: Ó hjálpráð uppreis hjer.

1. Lít upp mín sál og sjá Guðs sonar legstað á! Af þúngum dauðans dvala, Úr dimmu heljarsala Hann rjeð með heiðri rísa, Hans blessað nafn þú prísa!

2. Ó, morgunroði nær, Mikill og undra skær: Son guðs, vor sól upp runnin, Syndin og dauðinn unnin! Blessað sje nafn hans blíða, Sem bar þann sigur fríða.

3. Lypt þjer í hæðir hátt Mitt hjarta glatt og kátt; Lífnuðum lífsforingja Lof þakkir dýrð að syngja. Já, hjörtu þúsund þjóða Prí-blessi Jesúm góða!

# 8. Jesú uppstigning.

## 42. Sálmur.

Lagið: Heiðrum vjer guð af hug og sál.

1. Í dag, ó guð og drottinn minn, Í dýrðar himin aptur þinn Með heiðri og tign ert hafinn þú. Æ, hversu sárt mjer finnst það nú, Að jeg er enn í útlegð hjer, Hvar eymda, sorga og rauna her Hvert fótmálið mín fylgdin er.

2. Míns himna föðurs húsi frá Jeg harla langt hjer gista má; En þangað augað ei sem nær, Mín auðmjúk bæn sig-hafið fær; Mín andvörp heit og innilig þau upp um skýin brjóta sig, Minn frelsarinn! og finna þig.

3. Hið góða landið, guð minn! þá Mjer gefst að mega í trúnni sjá, Þar fjötrar synda falla af mjer, Mig fær ei skilið neitt frá þjer; þar útvöldum og englum hjá Þíns auglitis jeg dýrð fæ sjá, Og frjáls um eilífð fagna má.

4. Þar er ei nótt nje þjáning sár, Af þerruð gjörvöll harmatár; En æðsti sjóður er þar minn, Þar allur skal því hugurinn. Já, ó minn Jesús þar hjá þjer, Þó þreyi um stund í útlegð hjer, Eg vil í trúnni una mjer.

5. Eitt sinn munt koma aptur þú, Eins og til himins fórstu nú; Jeg biðja vil og vaka því, Vel minni köllun standa í. Þó hvorki viti' eg stund

nje stað Jeg stöðugt hugsa vil um það, Að komu þá ber eitt sinn að.

6. Ó hversu þjónninn sæll er sá, Sem þú viðbúinn finnur þá; Heitin og búin honum er Sú háleit sæla og dýrð með þjer, Sem aldrei nokkurt auga sá Nje eyra dauðlegt heyra má. Æ, veit oss öllum vegsemd þá!

---

# 9. Ástgjafir heilags anda.

## 42. Sálmur.

Lagið: Þjer mikli guð sje mesti prís.

1. Kom helgi andi herra guð, Í hjörtu þinna trúaðra nú! Himneska mildi fær og frið, Í fylling guðdóms með oss bú!

2. Þú hvítasunnu hátíð á, Sem herrans birtist sveinum fyr Svo tungum nýjum tóku þá Að tala guðs um dásemdir.

3. Huggarinn sanni einn þú ert, Þjer allt hið góða streymir frá; Æ, styrkur einnig vor þú vert, Og vek nú lífið nýtt oss hjá!

4. Ljós þitt í vorum hug upp kveik; Gef helgög trú og ástin hrein Vorn afmáð fái óstyrkleik, og öll vor bæti sálarmein.

5. Óvina hrek þú illsku ráð, Oss öllum send þinn helga frið; Og oss þín leiði eilíf náð Svo allan háska fríumst við.

6. Guð föður-þekkja vel oss veit; Oss vitni ber um Jesúm Krist, Og gef að öll hans heilög heit Í hjörtum vorum innsiglist.

## 44. Sálmur *.

Með sínu lagi.

1. Kom guð helgi andi hjer, Og af himni hingað ber Ljósið það sem ljómar af þjer! Kom volaðra faðir fús, Kom greiðandi gáfur oss, Kom helgasta hjartnanna ljós!

2. Huggarinn, sem hjálpar bezt, Heill fær sálin af þeim gest', Endurnæring mjúk og mest. Í erviði ert þú hvíld, Í ofhita svölun mild, Í harminum huggun gild.

3. Blessað ljós! þig biðjum nú, Brjóstið innra fyllir þú Hjá þeim sem vel halda trú. Hverfi oss þitt fullting frá, Finnst ekkert gott mönnum hjá, Ei má nokkuð saklaust sjá.

4. Lauga það sem saurugt sjer, vökva það sem visnað er, lækna það sem lemstur ber! Mýk þú stirðnað mjög og spillt, Verm það sem er frosti fyllt, Greið þess veg sem gengur villt!

5. Veit þeim sem þjer vel trúa, Von allri til þín snúa, Send þeim ástgjöf sjöfalda! Gef dyggðanna glеðileg not, Gef hjálpsamleg æfi þrot, Gef fögnuð um aldir alda!

## 45. Sálmur.

Lagið: Heiður sje guði himnum á.

1. Ó! þú sem ofan af himni há Vora hjarta vitja náir, Svo villugötum glæpa frá Til guðs oss leidda fáir; Kom helgi andi í hjarta mitt, það heilagt gjör musteri þitt. Minn þjer vegsemd munn lát syngja.

2. Þín himnesk mildi og ást það er, Sem aptrar blindum manni, Nær hann í lesti sökkur sjer, Og segir við hann þannig: „Ó vesæll maður, vakna og sjá þann voða, sem þú stefnir á; Aumri forða öndu þinni"!

3. Þá náðar-raust hann vaknar við, Og voðann hræddur lítur; Hans klökknar hjarta og hugskotið, Af hvarmi tárið flýtur; Hans augun opnast, og hann sjer, Að elding straffsins þarna fer, En geislar hjer af guðs náð skína.

4. Að náðarstólnum hönd þín hann Af bræðslu kraminn leiðir Að krossi þess er frið oss fann Og frelsið aumum greiðir; Þar Jesú blóð hans brot af þvær, Þar brátt hann djörfung nýja fær, Nýtt af trúnni fjör þar finnur.

5. Hvað mjög hans breytist hagur hjer: Allt hugarfarið bætist; Að nýju fæddur nú hann er, Og nýjum friði' hann kætist; Hans fyrri skuld til fulls af máð, En föðurlegri guð af náð Barn sitt hann að nýju nefnir.

6. Af ljósi þínu leiddur nú Hann leið til himna

þreytir, Í elsku, von og öflgri trú; Sem allt þín mildi veitir, Hann fetar Jesú fótspor í, Og fær nú dag hvern styrk á ný; Sífellt nýjan sigur vinnur.

7. Þú varðveitir í hættum hann, Huggar í myrkrum nauða; Til alls góðs hug hann frá þjer fann Og frið og von í dauða. Hans önd í dýrð til drottins nær, Og duptið sem að gröfin fær Eitt sinn dýrðlegt upp skal rísa.

8. Ó, ljóssins andi! leið þú mig Á lífs og sannleiks vega; Guðs orðin hrein og ástúðlig Mjer innræt kröptuglega. Af þinni styrktur ást og náð Vil eg þitt kærleiksfulla ráð Helgri meður hegðan prísa.

## 46. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Heilagi' andi, hjartans gleði, Hnossið bezt og einka traust! Klökkum hug og glöðu geði Göfgi þig mitt hjarta' og raust. Hjörtu viltu vörm og fróm Velja þjer að helgidóm. Sál þjer vígja virztu nafna, Vist svo hjá mjer taktu þína.

2. Líknar brunnur, ástar eldur, Eilíf lindin sannleikans! Þú fær læknað hjörtun hrelldu, Hrakið myrkur innra manns. Þegar von mjer veiklast kann, Vitnisburð mjer gefðu þann: Guð að líkn mjer vilji veita, Við mig eins og faðir breyta.

3. Oss þú kannt um allt að fræða, Einnig drott-

ins leyndar-ráð; Götu sannleiks gætnum þræða Gef mjer speki styrk og náð, Í hjarta mínu guðs orð geym, Glæð þú skilning minn á þeim. Mjer af greið þú myrkra blekki, Mig svo engin villa blekki.

4. Þú ert andinn helgi og hreini, Hatar synd og órjettinn; Hver það fremur ljóst eða' í leyni Ljós ei fær nje styrkinn þinn; Helga mig í hreinni trú, Í hjarta mínu stöðugt bú, Svo hin skæða syndin eigi Svíki mig af rjettum vegi.

5. Hjálpa mjer við holdið stríða, Heims yfir andörur klakklaust leið, Hugga mig nær hlýt jeg líða, Hjá mjer stattu í dauðans neyð! Gef mjer dómsins degi á, Dómara minn með gleði sjá, Og honum þá til hægri handar Helgra manna í flokki standa!

---

# 10. Apturhvarfið til guðs.

## 47. Sálmur.

Lagið; Hjarta, þánkar, hugur, sinni.

1. Ó minn guð! hvað á jeg gjöra, Eilíft líf svo veitist mjer? Á jeg þinn um eilífð vera, Eða skúfast burt frá þjer? Á mjer faðmur opnast þinn Eða lokast, drottinn minn! Mig nær senn fyri dómins dregur Dauðinn viss og kvíðvænlegur?

2. Æ! mitt hjarta er á flótta — Enginn veit þitt hulið ráð — Millum vonar mjög og ótta Hvort megi

vænta að öðlast náð. Ekkert finnst hjá föllnum mjer, Sem fái, drottinn! gilt hjá þjer; Eg, sem synd og órjett gjörði, Er þess von jeg hólpinn verði?

3. Já! þú hefur sjálfur svarið Syndarans ei viljir deyð; Jesús hefur af himni farið, Heimi að boða þennan eið, Ritaðan blóði helgu hans, Hjarta gleðstu syndugs manns! Þeim sem betrast alls án efa Eilíft líf vill drottinn gefa.

4. Guðs er himin opinn öllum, Ekki neinum glatar hann, Herrans náðar hljómi snjöllum Hjarta sitt er opna vann. Hans fá hjarta aðgang að Allir jafnt er girnast það; Sömu raust heyrir sjerhver lýður, Sama frelsi hann öllum býður.

5. „Komið allir þunga þjáðir", þannig hrópar lausnarinn, „Fullá sælu frið og náðir Fá skal sjerhver harmþrunginn". Fáráðnum, sem villast vann, „Ef villtu lifa" — segir hann — „Yfirgef þá brautu breiða, Barn mitt! kom jeg skal þig leiða".

6. En hver sá, sem ei vill hlýðast Ástúð guðs og miskunn hans, Ei þau boðin holl áhlýðast, Sem hljóma af munni frelsarans, Sinn hann fellir dauða-dóm; Drottinn loks með þúngum róm, Af því betran engri tekur, Frá augsýn sinni burt hann rekur.

7. Ó minn Jesús elskulegi! Aðhyllast mjer kenndu mig; Þú til himins vísar veginn, Virztu og þángað leiða mig; Uggleysi mig frelsa frá;

Falli jeg, æ, reis mig þá! Og hinum mikla dóms á degi, Drottinn, hrek mig frá þjer eigi!

## 48. Sálmur.

Lagið: Sú kemur stund.

1. Syndugur mann, Er synda lá í dvala, Hátt heyra vann Himneska rödd svo tala: „Hvað sefur þú? Sof ei, ó vakna brátt! Heyr orðið blítt, Sem huggar sálu þína; Sjá ljósið frítt, Er lætur geisla sína, þjer skína skært“.

2. Hver er sú rödd, Á hjartað svo er tekur? Guðs engils rödd“; Sjá, guðs þig engill vekur! Æ, vakna þú, Æ, vakna, sof ei meir! Sjá nú hve skín Hin skæra morgun stundin; Lát tungu þín Nú lofa að rofnum blundi þinn góða guð!

3. Æ, hvernig fær Hið hryggva brjóstið sungið? Mig hjartað slær Af harmi sært og þrungið. Því syndin ill Mig sektum hlaða' rjeð; Ok hennar er Sem ógna mikill þungi Á herðum mjer, Hve fæ jeg lof þjer sungið, Minn góði guð!

4. Þeim syndir grjet, Og sjer til guðs nam venda, Guð honum hjet Af himni styrk að senda. Þú sæll því ert: Guð sjer þinn eymdarhag. Lát hug þinn hjer Ei harm nje kvíða veikja, Því guð vill þjer Af gæzku aptur kveikja Nýtt lífsins ljós.

5. Syndarinn vann Af svefni upp að rísa, Hugsvölun fann; Nú hóf sinn guð að prísa Hans hjarta klökkt, Og himnesk ljós á ný Hann renna

sá, Og rósbjart sig umkringja, Guðrækinn þá Hann gjörði þannig syngja sinn morgun-sálm:

6. „Líknsami guð! Lát mildisól nú þína Með helgum frið Í hjartað inn mjer skína, Og hennar ljós Öll hrekja synda ský. Ó Jesú! mig þinn andi styrki og leiði, Hann lífs um stig Mjer lýsi og veg minn greiði Til himna heim“.

7. „Þú hæða rós, þú himnesk morgunstjarna! Þú heimsins ljós, þú heillin Adams barna! Sem gefur vald Guðs barna rjetti að ná Öllum, í trú Og ást sem við þjer taka. Eg lít þig nú, Eg ljúft skal við þjer taka, Þjer fylgja fús“.

8. „Ei leyfðir þú eg lengur skyldi sofa; Það þekki eg nú Og þessa mildi lofa. En munnur minn það megnar ei sem ber. Mitt hjarta þjer, Ó herra! vil jeg bjóða. Aum fórn það er, En föðurmildin góða, Æ þigg það þó“!

9. „Frelsari minn! Sem fyrir mig og alla Ljezt bikarinn Hinn beiska ljúft þjer falla, Og drakkst í botn Þá djúpu písla skál; Æ meðan skín yfir mig sólin bjarta Skal unan mín Að elska þig af hjarta, Og þóknast þjer“.

## 40. Sálmur.

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta.

1. Fallna mannkyn! guðs að góðu Gæzkuraust, er kallar þig, Þjer frá andarböli bráðu Benda vill á lífsins stig. Þennan frelsis þekktu

í dag, þekk þíns föðurs hjartalag; Náð sem er þjer enn til boða Óttast skaltu' að fótum troða!

2. Guð í fyrsta falli þínu Fyrirheit þjer veitti' um náð, Og í lífsins orði sínu, Enn þjer gefur frelsis ráð. Ef þú gjörir yfirbót Enn þá tekur hann þjer mót, Hans að fótum fallinn þegar Forláts biður ástúðlega.

3. Æ! ef þitt þá herðir hjarta Hans við raust er kallar þig, Hatist þú við hönd þá bjarta, Er hamla vill þjer glæpa stig; Vittu þá að vorum fyr Verða luktar náðardyr, Guð svo þig um eilífð alla Aldrei framar lætur kalla.

4. En ef brot þín sárt þjer svíða, Sjálfs þín kannast breiskleik við, Gleðstu þá, því guði að hlýða Gaf þjer Jesús mátt og lið; Heyrðu raustu hans til þín: „Hjer ér sætt, kóm til mín“! Hans þá mildi mun þig næra Svo megi trú þín ávöxt færa.

5. Orð þitt blessað leiðsögn ljái, Lausnarinn góði' og drottinn! mjer, Mig svo engin freisting fái Framar blekkt nje leitt frá þjer. Hold og blóðið heilagt þitt Hjartað veika styrki mitt, Svo að stríða, og sigri halda, Að sje jeg þinn um aldir alda.

## 50. Sálmur.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Hvar fæ jeg sekur hulið mig Heilagi guð! og falizt þig! Dauðans og dómsins degi á, Drott-

inn! hve mun jeg staðizt fá. Miskunna þig, miskunna þig, Miskunnarfaðir, yfir mig!

2. Jeg hræddur lít í himininn, Hjer finn jeg synda-reikning minn. En ef eg litast um á jörð Öll sje jeg þar mín brotin gjörð. Miskunna þig, miskunna þig, Miskunnarfaðir, yfir mig!

3. Hvert skal jeg flýja hrelldur þá, Hvar mun jeg líkn og svölun fá? Ó guð! jeg fell að fótum þjer, Fáráðum burt ei hrind þú mjer. Miskunna þig, miskunna þig, Miskunnarfaðir, yfir mig!

4. Frels mig lífgjafinn ljúfi minn, Mig leiði og styrki andi þinn, Og hægi minni hjartans pín, Með huggun blandi tárin mín. Miskunna þig, miskunna þig, Miskunnarfaðir, yfir mig!

5. Jesús þíns dreyra lífs-gnæg lind, Sem laugað fær af allri synd, Hún færi líf og frelsi mjer; Minn frelsari! jeg treysti þjer. Miskunna þig, miskunna þig, ó mildi Jesús, yfir mig!

## 51. Sálmur.

Lagið: Konung Davíð, sem kendi;

1. Sannlega jeg verð játa Jeg er hinn týndi son; Synd mína má jeg gráta, Misst hef arfarjettar von. Æ faðir! því af þjer Ástgjafir ótal þegið Eg hef, en þakkað eigi, Nje brúkað eins og ber.

2. Gleymt hef jeg guði mínum Gálaus á æfileið, Og Jesú, sem með sínum Sveita og kross-

ins deyð Ást hans mjer vetta vann; Anda guðs út jeg byggði Einatt, og mjög þann styggði Himnesska huggarann.

3. Sárt jeg það syrgja mætti, Sál mína' og líkamann Að helga guði' ei gætti, En glæpi með þeim vann; Hugsaði' um hegning lítt, Nje drottins miklu mildi, Sem mjer hið besta vildi, Og tíðum benti blítt.

4. Líkamans limu alla Ljeð hef jeg syndunum, Á sál rjeð saurgan falla Og sekt af girndunum Spilltu, sem opt jeg el; Hið góða þó jeg þekki, þá samt gjörf' eg það ekki, Holdsins því valda vjel.

5. Snú þú, æ snú mjer drottinn! Snúið þá verður mjer. Þú veitir vilja' og þróttinn Að vinna gott hvað er; Án þín megna' eg ei neitt. Fyrir frelsarann þjóða Fulltingi til hins góða þú fær mjer veikum veitt.

## 52. Sálmur.

Lagið: Nú bið jeg guð þú náðir mig.

1. Í dag þú heyrir herrans raust, Ó hlýddu maður tafarlaust! Já vakna skjótt og skelfdur sjá: þín skuld er mikil himnum á; Og hvorki fær þú hennar þrætt Nje hana sjálfur fyrir bætt; Ó fall því drottins fótum að, Á frest ei lengur dragðu það.

2. Ofengi svafstu syndum í; Og synda jókst á skuld með því Að misbrúka þau gæði', er gaf Vor guð þjer, sinni miskunn af. Fláráðum heim þú hylltist að, Æ, hverju mun hann launa það?

Hver verður huggun hans og lið, Nær hjartað stríðir dauðann við?

3. Hryggð, ótti, kvöl og hugar-raun Sjál heimsins þetta eru laun. Grundvöllinn þinnar gleði í þann, Þá gekk þjer vel sem byggði hann, Nær helzt þig stríðir hörmung á Hann hrekkvís rífur niður þá; Og nær þig drottinn dæma fer, Hann djarft mun vitna móti þjer.

4. Flý heiminn áður flýr hann þig, Og felur náðartíminn sig; Og betra þig á meðan mátt, Þú missir krapta smátt og smátt! Til yfirbótar allt eins hug þig óðum brestur jafnt sem dug; Og dauðinn skæður dag hvern er Sem dregið sverð yfir höfði þjer.

5. Sú betran hætt og óviss er, Sem ofboð dauðans knýr af þjer. Æ! treyst því ekki', að fýsnin flá, sem fjötur lagt þig hafði á, Ei hafi framar hjá þjer bið, Nær haminn skilur öndin við; Treyst ei að andláts iðranin þjer unnið fái himininn.

6. Að hættu þinni hygg nú ljóst, Og hryggur berðu þjer á brjóst; Seg: „Faðir! auðsýn miskunn mjer, Mjög er jeg sekur fyrir þjer, Mig hefur svipul syndin tryllt, Og sannleikans af götu villt; Nú er jeg flúinn fund þinn á, Faðir! í mildi til mín sjá“.

7. Mjög hef jeg brotið boðin þín. Æ, brot mjer fyrirgefðu mín! Sjá það af hjarta hryggir mig Að hef svo tíðum styggðan þig. Sekt minni gleym, og gef mjer náð Ó guð! að fái bætt mitt ráð;

þitt ljós og andi leiði mig Svo lífsins aldrei hverfi' af stig.

## 11. Elska og traust til guðs.

### 53. Sálmur.

Lagið: Jesú Kristi þig kalla eg á.

1. Ó Guð! þú brunnur ástar hreinn Og algjörleikans rjetta, Þá beztu girnd vors anda einn Sem orkað fær að metta. Virzt þú að hreinsa' og helga mig, Og hald mjer við það eina, Sem gott má greina: Að elska, og dýrka' af alúð þig, Hvers ást jeg fyrst nam reyna.

2. Alls ekki hugur orkar minn Þitt ástardjúp að kanna, En hjartað bráðna, faðir! finn Af fjölda velgjörðanna. „Vor guð er einskær ást og náð“ Augunum fyrir mínum Í ljóma-línum Sú yfirskript er augljóst skráð Á öllum verkum þínum.

3. Eg lifi, hrærist, er í þjer, Allt gott, sem jeg fæ notið, Af þínum, drottinn! allt það er Elskunnar brunni flotið. Því skyldi' eg ekki elska þig, Ástfús þjer hlýðni sýna, unz dagar dvína, Sem æ svo breiðir yfir mig Ástargeislana þína?

4. Frelsarans blóð sem fyrir mig rann, Og friður sálar minnar, Og vonin sem mjer veitti hann: Vegsemd á himnum finna, Guðs heilagt orð, sem huggar mig, Þá hryggð og angist beygir, Allt svo

mjer segir: Elskaðu guð, sem elskar þig, Og á hans gakktu vegi.

5. Ó guð! hve þakkað eg fæ þjer Ást þína þúsundfalda? Að eins að njóta unnt er mjer, En ekki neinu gjalda; Þó ef svo vel sem vít hef á Jeg velgjörð brúka rjeði, Er líkn þín ljeði, þú einskis meira æskir þá, það er þjer himnesk gleði.

6. Glæð þú minn hug og hjartað kalt, Svo heitt þig elskað fái, Og þínum boðum um fram allt Af alúð hlýðnast þrái. Auðsveipni, trú og ást til þín Innrættu sálu minni, Að sjerhvert sinni Unan og gleði æðstu mín Í einum þjer jeg finni.

7. Þó jörð mjer hverfi og himininn Og hels mig fjötur beygi, Sjertu mín von og vinur minn, Mig vantar sælu eigi. Tvöfaldri unan mettar mig Meðlæti hvert og gleði, Er líkn þín ljeði, Nær eg í trúnni elska þig, Er elska fyrst mig rjeðir.

8. Ó! gef jeg elskað geti þig, Minn guð! svo heitt sem bæri. Ó! að sú stundin yndisleg Yfir mig komin væri, Þá eg fæ verið eitt með þjer, Ei okkar neitt má skilja Samvist nje vilja, Nje skýin framar fyrir mjer Þitt fagra auglit hylja.

## 54. Sálmur.

Lagið: Hverr sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó guð! mín hjálp og stoðin styrka, Þig stöðugt elska gef þú mjer, Þig um fram allt í öllu

dýrka, Og unan mína hafa' í þjer. Já, allur vera vil jeg þinn, þú vinur bezti' og faðir minn.

2. Þú ást mjer sýndir æ svo heita; því elskaði' ei mitt hjarta þig? því hef jeg fyrri þín ei leitað, Og þekkt hvað bezt var fyrir mig? Ó guð! hvað blygðast mjög jeg má, Nær mína hugsa um breytni þá.

3. Mín hjervist leið; mitt lífsfjör eyddist, því logann girnda í mjer bar; Frá guði jeg æ lengra leiddist Unz lasta snörum heptur var, Á villustig jeg áfram óð, Unz opin sá hvar glötun stóð.

4. Sú sæla, sem mjer veröld veitti, Var vjelum fáguð þrældóms pín, En þín því ljúfa byrði breytti Í blessan strax nær hvarf til þín. Jeg heims nú ber ei hlekki meir, Mitt hjartað æðri sælu þreyr.

5. Í skyndi hverfur heimsins kæti, Hans heiður, auðlegð, vellyst flá; Þó öll hans gæði' jeg öðlazt gæti, Þau andans þörfum nægt ei fá. Ó guð! jeg finn að eins í þjer þann auð, er sífellt nægir mjer.

6. Öll jarðnesk gæði og eignir mínar Álíta kenn þú drottinn mjer Sem stuðningslán, unz stund sú dvínar Sem staddur heims á vegferð er; En allt það gott jeg gjöra vann Sem gæði' er aldrei missa kann.

7. Ó guð, mín gleði og athvarf eina! Unn mjer að treysta og hlýða þjer, Og á þjer hafa elsku hreina, Án áfláts við þig halda mjer. Lát mig

við hjartað hvílast þitt Nær hjartað loksins brestur mitt.

## 55. Sálmur*.

Lagið: Til þín heilagi herra guð.

1. Á einum guði er mitt traust, Eg vil hans hjálpar bíða; Frelsa mun mig hans höndin hraust, Hvað sem jeg verð að líða. Já, góður hann og alvís er, Ei skal því fallast hugur mjer, Ei skal jeg kveina og kvíða.

2. Þó að þeir snúist mjer á mót, sem mein jeg gjörði ekki, Og veikan titra finni' eg fót, Sem forráð ei sjer þekkir, Til himins þá jeg hjarta sný, Og herrann gefur styrk á ný; Hann brýtur af mjer hlekki.

3. Guð er mín hjálp og hlífðin traust, Hann lætur mig ei falla. Þegar jeg opt og efalaust Á hann í trúnni kalla. Hann er minn guð, hann heyrir mig, Hann hefur tekið upp á sig Áhyggju mína alla.

## 56. Sálmur.

Lagið: Væri nú guð oss ekki hjá.

1. Mín önd í guði er svo glöð, Af því hann vel mjer hlífir; Hann er mín huggun hjálp og stoð, Hann hjúkrar sál og lífi. Mig enginn háski hitta má, Þó horfist skaðvænlega á, Guð frelsar frá því lífi.

*) Sbr. 62. Davíðs sálm.

2. Því reiðir sig mín auðmjúk önd Á þann miskunnar herra; Jeg veit hans góð og heilög bönd Mig hjálp ei lætur þverra. Hann er mitt vígi' og hjálparmúr Í hvers kyns voða styrkur, trúr, Hann mun mig hólpinn gjöra.

3. Á drottinn vonið öll hans börn, Allt hjartað gefið honum. Hann er vor styrkur, hlífð og vörn, Vor hjálp í mannraununum; En veikt og valt er manna megn; Mætti drottins og vilja gegn, Alls ekkert orka munum.

## 57. Sálmur*.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Öruggur fel þú allt þitt ráð Eilífri drottins föðurnáð, Og haf hans orð í hjarta þjer, Hvernig sem veröld byltir sjer, Það eitt óvalt eg veit á jörð Og verk sem eru í guði gjörð.

2. Heims fyrir gæðum hægt þú stríð, Þín hjervist varir stutta tíð. Vittu að stríð það annað er, sem ætlað var af guði þjer, Og það er tíma öðrum á, Sem öll þú skyldir launin fá.

3. Þig varðar mestu að vinnir hjer Þau verk er drottinn sagði þjer. Og að þú líf þíns innra manns Með anda glæðir sannleikans, Og ríki guðs og rjettlætið Að rækja sje þitt stefnumið.

4. Af allri stríddu orku við Alls konar freistni' og ranglætið. Guð er þín hjálp í gleði' og nauð, Gættu þess vel, sem hann þjer bauð: Vert

góðgjarn, rjettvís, grandvar, þá Guð mun þjer fyrir öllu sjá.

5. Hygg ei hann svíki og hverfi þjer, Nær hættur duna' og styrma fer, Á vinda gengur vængjum hann, Og vagn sinn gjöra þrumur kann; Hann skipað fær að skaði og neyð þjer skuli verða blessan greið.

6. Já! vertu, styrkur, dimman dvín, Sjá dags í austri roðinn skín! Öll myrkur hrekja hönd skal dýr Hins hrausta, sem þar uppi býr Er morgunstjörnu skært svo skín, Skunda lætur úr fylgsnum sín.

7. Reið þig á guð, því mannlegt megn það má sjer ekkert honum gegn; Og hverjum sem hans halda boð, Hann er þeim vernd og örugg stoð. Já, öllum sem að elska hann þeim allt til bezta gagna vann.

## 58. Sálmur*.

Lagið: Guð vor faðir vjer þökkum þjer.

1. Sjá, allra augu upp á þig, Allherjar drottinn! vona. Hver skepna biður: blessa mig, Og bættu nauðþurft mína! Nær örlát þín sig opnar hönd, Af góðu mettast þeirra önd, Þær göfga gæzku þína.

2. Vjer játum og, vor góði guð! Gott allt frá himnum kemur, „Gef oss í dag vort daglegt brauð"! Dirfumst ei óska fremur. Þakklátt og hófstillt gef

oss geð Sem gáfur þínar ánægt með Girndanna græðgi temur.

3. Þinnar blessunar þegar vjer Í þínum ótta leitum, Rækjum vort kall sem bezt oss ber, Með bæn og kappi þreytum, Von lát ei bregðast vora þá, En veit oss björg og hagsæld ná Og náð, að rjett þess neytum.

4. Því meira gott þú gefur oss, Gæzkunnar faðir blíður, Því meiri hjálpar flói foss Frá oss á allar síður; Því innilegri ást á þjer Um æð vors hjarta þrengi sjer. Þig allur lofi lýður.

## 59. Sálmur.

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta.

1. Vertu mótgangs trúr á tíma, Treystu drottni kristinn mann! Krossins ei þig láttu líma Leiða frá að elska hann. Minnstu þess, hvað mikla náð Og marga líkn hann fjekk þjer tjáð, Minnstu þess hvað þrátt hann styggðir, þrátt hans góðan anda hryggðir.

2. Vertu trúr og veiklast eigi, Vinur guðs, í þinni trú; Engin villa brjóst þitt beygi, Byggðu á orðin þíns Jesú. Rjúfðu' ei svarinn sáttmálann, Sem þú gjörðir fyr við hann. Ef þig nam sú hrösun henda, Hans á náðir flýt þjer venda.

3. Vertu trúr í vináttunni Við þinn guð sem elskar þig; Bræðrum þínum einnig unnir, Eins þó ráfi á villustig. Eptirdæmi guðs ei gleym, Gaf

hann son sinn föllnum heim, Brot upp gefa þú ef þreytist, Þjer ei drottins miskunn veitist.

4. Vertu trúr í von og trausti, Þó veitist hjálpin ei svo bráð; Guð, þinn mildi herra og hrausti, Hulið geymir líknar ráð; Öll þín andvörp heyrir hann, Hans ei miskunn bregðast kann; Allt má ske þitt athvarf svíki, En aldrei guð í himnaríki!

5. Vertu trúr til æfi enda, Öruggt þreyt hið setta skeið, Ekkert láttu böl þig benda Svo þugir stefnu' af rjettri leið. Heims ei jafnast hörmung má Himins dýrðargnótt við þá, Trúum þjónum herrann hefur Hjá sjer geymt og frelstum gefur.

6. Vertu trúr á dauða degi Dauða stríðið heyja vel. Þín þá trúin þrotni eigi, Það er lífsins efsta jel. Horfðu á Jesúm herra þinn, Hann þjer gefur sigurinn. Eymdafjötur af þjer greiðir, Inn í ríki sitt þig leiðir.

## 60. Sálmur.

Lagið: Jesús, sem að oss frelsaði.

1. Hve þrauta myrkt og þungbært er Í þessum heimi að búa? Hvar fær mitt hjarta hægt á sjer, Til hvers á jeg að snúa? Á himni og jörð jeg hef ei neinn Nema herrann Jesúm eina, Hann hefur lífsins orðið einn, Hið eilífa og hreina.

2. Þú huggun guðs orðs háblessuð Í hjarta' eg vil þig festa: Að öllum þeim er elska guð Snýst

allt um síð til bezta. Sá þolinmóður byrði ber, þeim bjargar guð og heiður, Og raun, sem stundleg að eins er, Um eilífð sælu greiðir

3. Jeg girnist ei þá glaðværð hjer, Sem guðleysinginn þráir, því hryggðin betri einhlátur er, Hún hjartað betra nær. Þú herra veizt nær hentast er, Við heims jeg raunir skilji; Eg bið því: verði æ á mjer þinn elskulegur vilji.

4. Jeg gef og fel mig glaður þá, Minn guð í þínar hendur; Jeg veit að krossins vegi á Í vegsemd hjá þjer lendi. Þó bikar tæma hryggða hjer Jeg hljóti, sízt jeg kvíði; Jeg veit þín gæzka gefur mjer Hið góða vín um síðir

## 61. Sálmur.

Lagið: Frið veittu voru landi.

1. Ástríkur ertu' og góður Eilífi guð og faðir minn. Því ber jeg þolinmóður; Nær þín leggst á mig tiptanin. Kvíð ei, nje hræðst mitt hjarta, Hvað guð mjer ætla kann; Óttast þarf ei nje kvarta, Allt mjer sem bezt vill hann. Mig elskar eins og faðir; Já aldrei neinum hann Um aldur útskúfaði, Hans ást er treysta vann.

2. Og þó jeg ekki skilji Hans undarlegt og hulið ráð, Hans vegir samt og vilji Veit jeg er eilíf speki' og náð. Manns augað ei þá neina Úrræða von rjeð sjá, Hvað margur hans fjekk reyna Hjálpina næsta þá! Guð minn! hver gat með rjetti

Greint að þá líði þín, Er honum ekkert ljetti Almáttug gæzkan þín!

3. Ó Jesús, Jesús blíði, Ó Jesús! gef mjer friðinn þinn; Kenn mjer, um stund þó stríði, Með stilling bera mótganginn. Þá krossins þungu byrði Þú fyrir heiminn barst, Enginn þig æðrast heyrði, Ávalt þolgóður varst: Ó gef mjer numið geta Það góða dæmið þitt, Og rór þín för að feta Unz frelsi kemur mitt.

---

## 12. Skyldur við sjálfa oss og náungann.

---

### 62. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó Jesús minn! með auðmjúkt hjarta Eg vil setjast að fótum þjer; Eg veit í þinni augsýn skartar Auðmýktin hrein, og jörð sú er, Hvar sæði guðs orðs blómgast bezt, Og beztan ávöxt færa sjest.

2. Hún er grundvöllur harla tryggur, Þar helgur andi' í brjósti manns Sjer varanlegan bústað byggir; En bygging gjörvöll sjerþóttans Er Babels turn, sem bráðum datt, Því bygging þeirri drottinn hratt.

3. Því vil jeg drambi heimsins hafna Og hlýða í auðmýkt, guð minn! þjer. Þú auðmjúkt hjarta

elskar jafna, það inndælasta víst þín er; Og bæn auðmjúku brjósti frá Nam beztu jafnan áheyrn fá.

4. Mig veikan drottinn! virztu' að stoða — Sjá vilja minn og andvörp heyr! — Þá bresti' er við mig löngum loða Að leggja niður meir og meir, Svo traust mitt geti glæðst til þín Og góðfús ást til bræðra mín.

5. Ef betra veitzt mjer hlutfall hefur Eg hrokast ekki vil af því: Jeg veit, að það er guð sem gefur, Og gjöf hans hver að skuld er ný; Og hverjum mikið herann gaf, Þeim heimtast líka mikið af.

6. Eg veit, minn guð! Að eg er minni Allri trúfesti þinni' og náð, Og túngu vinnast má ei minni Maklega fá þjer lofgjörð tjáð; Æ! gef að hegðan megi mín Maklegar prísa gæzku þín.

## 63. Sálmur.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

1. Að hafa nægt og heims-fögnuð Ei hjálpar sálu minni; Ánægður vera og óttast guð, Ef eg þess gæta kynni, Það allra gæða æðst er reynt, Og að geyma sitt hjarta hreint, Og gæzku guðs að treysta; Þetta hin bezta auðlegð er, Sem æfinlega dugir mjer, Og bezt má hugann hreysta.

2. Guð, sem míns hjarta þekkir þel, Og þörfina alla mína, Allt hvað mjer gagna veit hann vel Víst lætur mig ei dvína. Í þeirri glöðu von

jeg vil Vinna sem jeg hef orku til, það sem hans boð mjer bjóða; Köllunar minnar grandvar gá, þó grípi' ei launin jörðu á, Og vona' á guð minn góða.

3. því skyldi' eg treysta tál það á, Sem tælir mig og svíkur, Blindar um stund, og burt mjer frá Sem blað af stöngli fýkur? Sú lukka, þegar frá mjer flýr, Og fláráð við mjer baki snýr, Hvað hefi eg þá eptir? Fáráður jeg og fávís má Mitt fallið hús þar liggja sjá, því jeg á sand það setti.

4. Í brjósti mínu' eg byggja vil Bústaðinn sælu minnar, Er ógnaregni og ofsabil Ei takist mein að vinna; því orðin guðs og örugg trú Skal undirstaðan vera sú, Eg sem að á hann reisi, Ánægður svo jeg hvíli hjer Við hvað sem drottins vilji er, Hörð þó að hretin geysi.

5. Á gleðidögum gjafarann Hinn góða vil jeg prísa, Og með manngæzku mest sem kann Hans miskunn við mig lýsa; Á hryggðardögum hjarta mitt Hafa skal fyrir athvarf sitt þá von og trúna trausta: Að framvegis mjer hjálpi hann, Hvers hingað til svo margopt vann Mjer bjarga höndin hrausta.

6. þú svika gleði frá mjer flý, þinn flótta græt jeg eigi; Guð er mjer jafnan gleði ný, Við gæzku hans jeg þreyi. Til eilífs lífs hvað bezt mig býr, því bíta mun mjer hönd hans dýr, Hann hefur

mig í minni, Honum jeg treysta' og hlýða vil Unz hvíldar þreyttan kallar til, Og vekur 'í sælu sinni.

## 64. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Guðs barn! un við gæfu þína, Gnægtir ei þó veittust þjer; Lát þig ekki öfund pína Annars fegri kjör þá sjer. Þjer hvað hagar þekkti hann, Þína daga' er telja vann; Þigg ánægður það hann gefur, Þjer hans forsjón gleymt ei hefur.

2. Þín ótrauður vert að vinna Verk, sem drottinn bjóða vann; Ávextinum iðju þinnar Einan ráða láttu hann. Temjir fýsnir þínar þú, Þá skal brátt þín hlutdeild sú, Er girndin áleit granna og skerða, Guðs af blessan tvöföld verða.

3. Hrúgur auðs þá helið grefur, Heims er safna keppfust þý, Æðri hnossir guð þjer gefur: Gleðina hreina brjósti í, Vitni hjartans varmt og rjett Vel að rækir þína stjett, Örugga von um arf á hæðum, Eilífa gnægð af dýrðar gæðum.

4. Snauður og hinn, er sjóð nam safna, Sama loksins takmark' fann; Gröfin alla gjörir jafna, Greinarmuninn afmá kann. Sjerhvað gott sem gjörðir hjer Guð á himnum launar þjer. Meir sá hafði millum handa, Meiri hlýtur reikning standa.

## 65. Sálmur.

Lagið: Ráðvanda þánka og hjartað hreint.

1. Sæll er sá mann, sem hjarta hreint Hefur og geymir ljóst og leynt; Augunum glaður sínum hann Upp til síns drottins líta kann; Guðs þegar vegi gengur á, Guð er hans hjálp og styrkur þá; Að auga drottins alskyggnt er Innra það honum fögnuð ljer.

2. Með blygðan, ótta og angurs pín Aldrei lítur hann sporin sín. Hjartað sem ber í brjósti hann Með brixlum ei hann særa kann, Þrumar daglag efni ný Hans yfir sál ei draga ský; Sakleysið engum sveik hann frá, Svo þeir hann klagi guði hjá.

3. Þú, sem lagðist í lesti og synd, Lærðu að temja þína girnd; Útslökk í tíma eldinn þann, Eyðandi sál sem verða kann. Hver eigi strax um æsku vor Óttast hið fyrsta synda spor, Líkur vorblómi brotnu sá Bráðlega visna og falla má.

4. Þekktu þá tign sem guð þjer gaf, Og gát á henni stöðugt haf; Dýrunum lægra hrapar hann, Í hlekki girnda' er seljast vann. Guð, svo þú hjartað geymdir þitt, Gaf þjer skynsemi' og orðið sitt; Tvöfalt fyrst ljós er tendrað þjer, Tvöfalt þín ábyrgð meiri er.

## 66. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Hver gengur öruggt guðs á vegi Og guðs

hinn sanni-vinur er? Sá sem mennina óttast eigi, Hjá engri skyldu hliðrar sjer; Guð er hans skjöldur, skjól og vörn, þó skynji ei þetta heimsins börn.

2. Þó bylgjur hafs og blossi æði, Og björgin sundur klofni hörð, Og skjálfi eins og þeytt á þræði Af þrumum bæði fjöll og jörð, Eð minnsta hár hans höfði á Án herrans vilja' ei skerðast má.

3. Þó net sín vjel og vonzkan breiði Á víð og dreif um leiðir hans, Og fórnsir hann með mótgjörð meiði, Hann minnist ætíð frelsarans; Aumkar hinn seka, vont sem vann, Með velgjörð sigra reynir hann.

4. Þó heimur hann með lygum hjósti, Og löstuð sje hans athöfn hver, Á himnum og í hreinu brjósti Hans huggun bæði og vitni er. Þeim grand ei nokkur gjöra kann, Sem guð er með og samvizkan.

5. Í Jesú nafni þannig þreytir Þolinn og glaður lífsins skeið, Sá eptir drottins boðum breytir, Baðandi' í rósum særður neyði þar sjest: hvað styrkur stendur sá, Er stöðugt vonar drottinn á.

6. Ó Jesú! virztu æ mig leiða, Um þinn sannleiks og friðar stig, Og mjer þrótvélkum ganginn greiða, Þinn góður andi styrki mig; Himnesku gef mjer hnossi ná Heilagrá þinna landi á!

## 67. Sálmur.

Lagið: Oss lát þinn anda styrkja.

1. Ó drottinn! allt mjer segir, Að jeg sje gestur hjer. Gef að mjer gleymist eigi Hvað gullvæg tíðin er. Þá stund mjer gefur gæzkan þín Veit mjer svo vel að brúka Sem væri' hin efsta mín.

2. Heims þessa hverful gæði, Hefð, auð og virðingar, Öll þó jeg eignast næði, Ei þau mjer gagna par; Verða mjer bölvan, tjón og tál, Ef þau svo illa brúka, Að minni spilla sál.

3. Í tíma gef jeg geti, Guð minn! það kannazt við, Dag hvern svo dýrst jeg meti Dyggð og samvizku-frið. Þá hef jeg fundið fjesjóð þann, Er frá mjer enginn taka, Já! ekki dauðinn, kann.

4. Hjá þjer jeg liðs nú leita, Líknsami faðir minn! Aðstoð mjer virztu veita, Svo viljann helga þinn Stundi' eg og ræki um fram allt, En aldrei ginnt mig geti Glys heims og prjálið valt.

5. Ó guð! ef eg þjer gleymi Og missi þína náð, Hvar finn jeg þá í heimi Hugsvölun, athvarf, ráð? Yfir mjer dunar dómarinn, Undir mjer geigvæn gína Glötunar myrkurin.

6. Æ! lát þitt orðið bjarta Og andann góða þinn Mitt vekja og hnegja hjarta, Þá hrasar fótur minn; Faðir! við þína hald mjer hönd, Bezt veginn þú sem þekkir, Þín heim á friðar lönd.

7. Unn mjer jeg aldrei gleymi Alstaðar nálægð þín, Svo hverja er dvel í heimi Helgi þjer lífs

stund mín. Og þegar kvöld mitt komið er Til hvíldar glaður gangi, Guð minn! í faðmi þjer.

## 68. Sálmur.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

1. Ó guð! þín gæzkan ástúðlig Mjer um það vissu gefur, Að ei til hryggða' og mæðu mig þín mildi skapað hefur. Öll gleði, gjöf þín er; Gott kemur allt frá þjer; Hvað sæll er sjerhver mann, Sem þinna gáfna kann Njóta með hjarta hreinu!

2. Gleðinnar vinur guðs son var, Með glöðum hann sig kætti, Eins og meðaumkun mildur bar Með þeim er eitthvað grætti. Hans andi' af himnum enn Huggar guðrækna menn; Allt böl vort bætir hann, Ef bústað hjá oss fann, Og vígir vora kætti.

3. Því vil jeg hafa hressa lund, Af hjarta glaður vera; Og fyrir hverja heilla-stund Þjer herra! þakkir gjöra. Hefur, unz heimur dvín, Hver dagur mæðu sín; En guðhrædd sál og góð, Guð minn! úr þínum sjóð Hvern dag fær huggun líka!

4. Skynsemin allri skemmtan mín Skorður og lög skal búa, En minning heilög mjer skal þín Minn guð! frá ljettúð snúa. Samvizkan sífna mín Sje mitt fagnaðar vín; Hrein gleði og hófleg þá Hressingu mjer skal ljá, Og fjör til góðra gjörða.

5. Styrk mig, drottinn! að þakka þjer Og þóknan með því sýna, Nær gleði og lán þú gefur mjer,

Að gleðja bræður mína. „Glaðvær og góður ver“. Guðs orð og hjartans er. Það gjör mjer lögmál ljett, Og lát mig skilja rjett, Ó guð, minn góði faðir!

## 69. Sálmur.

Lagið: Til þín heilagi herra guð.

1. Ó hversu dýrmæt guðs er gjöf Góðrar fá heilsu notið! Glaðvær sá honum greiði lof, Er gæði þau fjekk hlotið. Já, ómissandi er heilsan hnoss, Þó hugsist þetta sjaldan oss Fyr en það finnum þrotið.

2. Nær kvalabeði köldum á Vjer kveinum daga og nætur, Og augun blundað ekki fá, Af angist hjartað grætur, En holdið tært af eymdum er: Þá auglýsist að heilsan er Dýrgripur mjög svo mætur.

3. Ó Jesús! minnstu' á alla þá, Sem ógna þjáning bera, Sál þeirra legg ei ofþungt á; Eilífi náðar herra! Send þeim huggan og hjálp í neyð Og hugga styrkan fram í deyð Og frið nær fjör skal þverra.

4. Ef nýja heilsu þóknast þjer Þeim þjáðu aptur veita, Þá gjöf þeim meta gef sem ber, Með gætni hennar neyta; Oss hinum eins þig heiðra kenn, Þjer hlýðnast, og við alla menn Sem bræður vel að breyta.

5. Ef nú oss heilsu alla stund Sem ástgjöf brúka þína, Svo hjá oss finnir hrausta önd

Nær hreysti líkams dvínar; Og loks í byggðir leið oss þær Vort líf og heilsa Jesús kær Hvar ekki' er eymd nje pína.

## 70. Sálmur.

Lagið: Sælir eru þeim sjálfur gáð.

1. Guð! sem háleita gáfu þá Gafst oss mönnum í heimi, Að tungan sjerhvað sagt nam fá, Er sálin vill og geymir, Allmikla hjer Eg finn þig mjer Ábyrgð á hendur segja, Er mjer bauðst gá, Minn hvenær á Munnur að tala' eða þegja.

2. Guðlausra flokk þú forða mjer Að fylla nokkurn tíma, Sem hæða allt hvað heilagt er, Herrans að boðum kíma. Gárunga tal, Og gálaust hjal Glaðværð ei saurgi mína, Frómt já og nei, En eiðar ei, Einlægt bezt hjarta sýna.

3. Styrk mig að vega vel hvert orð, Sem villa kann eða meiða, Og varast eins og andarmorð Allt róg og smjaðrið leiða. Sannleikinn einn, Hiklaus og hreinn, Heilagur skal mjer vera; Arg-ara' en rán það er og smán Aflaga hann að bera.

4. Fánýt og vesæl frægð er það, Fjærri skal sú mjer vera, Náungans leita lýtum að, Og lastgjarn út þau bera; Nei! þegar vill Öfundin ill Óhróðri með hann beygja, Hans virðing þá Jeg vil ef má Vernda en annars þegja.

5. Trúnaðar mál, sem ekki er Óhæfa nein að fela, Aldregi skal af munni mjer Málæðið skaðlegt

vjela; Sá sem eitt sinn Mjer ástfólginn Ugglaus nam trúnað sýna, Ósáttur má Ei orsök fá Að óttast tungu mína.

6. Tungu þó leysa ber mjer band Og birta skíran sanninn Fyrir konung og föðurland Fyrir velgjörðamanninn. Æ skal hún greið Aumingjans neyð Með aðstoð guðs að ljetta, En hindra með Hreinskilið geð Hrekkvísi' og ráðin pretta.

7. Hvað sem rjettvíst og heiðvirt er Hreinlífi og ástsemd skrýðir, Hvað mætrar dyggðar merki ber og menn hvervetna prýðir, Guð gefi hjer Af munni mjer Sem morgundögg það streymi, Og hermi ljóst Hrekkvísi og þjóst Mitt hjarta síst að geymi.

8. En um fram allt minn góði guð! Gjör snjalla tungu mína Þín að víðfrægja blessuð boð Og birta miskunn þína; Í gleði' og neyð Hún æ sje greið Mitt auðmjúkt kvak þjer bera; Styrk mína sál, Svo mannsins mál Þjer megi geðþekkt vera.

## 71. Sálmur.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

1. Þú kristinn maður! heyrðu hjer Herrans boðorðið mæta: „Hvað annar gjöri þú kýs þjer, Þess átt við hann að gæta". Ránglæti og svik um síð Sannlega gjöld fá stríð; Opt skálkum illgjörð vinnst, En þegar varir minnst, Hegning þeir harðri mæta.

2. Hegnarinn máttki horfir á Hrekkvís hvort skeytin sendir, Hvað lítilmagninn líða má, Á laun hve sárs hann kenndi. Hann þegar heldur dóm, Sem hjörtum elskar fróm, Öll vopnin illvirkjans, Og örvar svikarans, Skelfdri þeim hrökkva úr hendi.

3. En sá sem hatar hrekki' og vjel Herrans vill ásjár bíða, Honum að lyktum vegnar vel, Þó verði' um stund að líða. Rjettur skal hans og hrós Hefjast sem miðdags ljós. Drottinn heldur sín heit, Hjálpráð hann öflugt veit Öllum sem honum hlýða.

4. Um heimsins laun ei hirtu því; En herrans gættu skunda. Haf þína unan honum í, Með heiðri kall þitt stunda; Svo muntu honum hjá Þíns hjarta lysting fá; Öll fel þín efni og ráð, Ást hans og föður náð! Hans blessuð boð ígrunda.

5. Hólpinn í geymslu guðs þú ert, Gleð þig í honum einum, Ljúfur, góðgjarn og lempinn vert Líka þolinn í raunum. Sízt guði gleymast kann Góður og rjettvís mann: Sínum hann segir bert: „Saklaus og frómur vert. Guðs færðu gnægt að launum“.

## 72. Sálmur.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Hjálpi mjer guð þín gæzkan blíð, Jeg grandvar finnist lífs um tíð: Unn mjer að sýna eng-

um prett En afla fjár míns vel og rjett; því fje, sem illa fengið er, það ferst og enga blessan ljer.

2. Fyr en rangfengnum fagni auð Fús vil jeg þola skort og nauð; Ánægður nær og inni því Ærlegri fátækt lifi' eg í, Samvizkan hreina, sem jeg ber, Sælgæti verður daglegt mjer.

3. Guðs þegar boða geng jeg leið, Guð er mín hjálp í allri neyð; Og ríkis hans á rjettan veg Ef rækilegast leita jeg, Allt hvað sem bezt mjer henta sá Hans gæzka mun mjer veita þá.

## 73. Sálmur.

Lagið: Dagur er, dýrka ber.

1. Meiri auð Eða brauð enginn hlýtur Heldur en mildi Herrans vildi; En hver sá, Er við þörf Ei vill störf Æfa þrótt sinn, Fæðu fá Sízt skal sá, Svo bauð drottinn.

2. Starfa því, Og þúns í Andlits sveita Bjargar leita; Blessan veita og brauðs nægð Guð mun þá; Þjer hann á þóknan hefur, Þína' ef stjett Stundar rjett, Og styrk þjer gefur.

3. Ef þú þörf Iðkar störf Eykst þjer þróttur; Vit þitt æfist, Hönd verð hæf Og hagvirk; Verkin þjett Vel fer ljett Vaninn góði; En höfn er rót Letin ljót, Lasta móðir.

4. Þinn þörf Stunda störf, Styrk þjer góð hjarti Hönd ef þreytist, þú nær sveitist þau við, Upp

til hans Innra manns Andvörp sendu, Og legg í stað Störfum að Styrkar hendur.

5. Iðinn þörf Iðka störf, Allra gagn styð. Eiginn hag Með annars haga' Ei efl þú. Gjör allt rjett, Líðendum ljett' lífs armæðu; Laun skalt fá þreföld þá þú af hæðum.

6. Iðinn þörf Iðka störf; En þess vel minnst: Gálaus eigi' Að gleymir degi Guðs þíns, Sjer sem hann Helga vann, Og hjarta þínu; Unn því þá Frí-stund fá Hjá föður sínum.

7. Eins ávalt Um fram allt Einkum gætir, Verk svo laga', og Hegðan haga Hvern dag, Guði að þóknist það, Og þar um keppir, Með syni hans Sigurkrans Síðast hreppir.

## 74. Sálmur.

Lagið: Guð miskunni nú öllum oss.

1. Nær sæll og heill þú sofna fær, Og sæll og glaður vaknar, Þess fáráðs minnstu fjær eða nær, Sem fæðu og heilsu saknar. Hold þitt á meðan hvílast vann, Hann spyr, hvað nóttu líði: Þín dagstund glöð og greitt fram rann, Hann grætur einn í stríði: Hvað sín sje seim og bíði.

2. Krjúp fyrir drottni auðmýkt í, Ó minn sannkristni vinur! Og hans á föður hjarta knýj Að hjálpa þeim er stynur; Og gjör svo allt hvað orkar þú, Aumingjans neyð að ljetta; Með því þú

vottar þína trú þrautbeygðum hönd að rjetta, Vel guði þóknast þetta.

3. Gefi mjer drottinn daglegt brauð Og dýrmætt heilsu gæði, Þakka vil honum eg þann auð Með orði og verki bæði; Voluða gleðja vil' eg þá Og veikum líkn auðsýna; Og þó að nokkur eptir á Við eymd ei vikni mína, Minn guð ei mun mjer týna.

## 75. Sálmur.

Lagið: Guðs son kallar komið til mín.

1. Hvað sæll er sá, sem aumum ann, Með ást og hjálp við náungann Skuld sína guði greiðir; Í meðlætinu minnist á Hina mótlætta, sem raunir þjá, Og hryggur líf framleiðir.

2. Friður skal æ og unun góð Á mannvinarins búa slóð, Hans fæðu blessan bætu; Heyrð skal í neyð hans bænin blíð Í banasæng á dauðans tíð, Og hann guðs miskunn mæta.

## 76. Sálmur.

Lagið: Öll náttúran enn fer að deyja.

1. Ó, hvað veröld yndisleg væri, Ef eindrægni' og friður, sem bæri, Hjörtu manna' og bústaði byggðu, Bræður svo hver annan ei styggðu!

2. Tvídrægni sú ófreskjan illa, Eining manna' er keppir að spilla, Þreytt þá hlýti' og hrakin að ganga Hvergi næði afdrep þar fanga.

3. Opt sú heyrist umkvartan lýða: Ei sitt vilji musterið fríða Hjá oss hyggja lukkan á láði, Lifum vjer því ógæfu hrjáðir.

4. En ef friður inni sitt reisir Aumingjanna' Í fátæku hreisi, Vært í bóli vesla þeir hvíla, Varðhalds englar guðs að þeim skýla.

5. Sjáum stjarna sólfagran snúa, Saman þær í ástsemi búa, Eins og hver til annarar brosi, Enginn þeim sig nálægir rosi.

6. Guð þann lætur herskarann hæða Um himna friðinn blítt til vor ræða: Að í myrkri sútanna svörtu Svo í friði skíni vor hjörtu.

7. Sjáum blessuð blómin á vorin: Boða þessi rósfögru sporin Sumar bjart, er senn skuli ljóma, Og sjálf þau skrýða dýrðlegri blóma.

8. Svo hver ástar unaðin hreina, Er í heimi vjer fáum reyna, Um himins ást þá háleita ræðir, Er hæðasumar þúsundfalt glæðir.

9. Helgur sá mjer hugsvalar friður, Hjá mjer styggð er kæft get jeg niður. Færir hann mjer forsmekkinn góða Af friðsæld himins útvaldra þjóða.

10. Beisk nær hjörtu blíðka jeg kunni, Bjó til sátt með verknaði' og munni, Að mjer drottinn ásjónu vendi, Ótal náðar geisla mjer sendi.

11. Blíði drottinn! beyg þú vort sinni Blessaðri með föðurást þinni, Styrk oss að í freisting ei föllum, Friðaranda þinn gef oss öllum.

## 77. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó guð! þú skalt mitt vitni vera, Jeg vil minn málstað fela þjer, Og engan hefndarhuga bera til hans sem braut á móti mjer. Hvar stæði' eg gæzkan guðdómlig, Ef gengir þú í rjett við mig?

2. En rjetti gleyma þú vilt þínum; Já, þú sem fæðir elskar hann, Er brot upp gefur bróður sínum, Við beisklyndinu sporna kann. Hve sæll er maður sáttargjarn, því sá skal kallast drottins barn!

3. Með hógværð vil jeg sanna og sýna, Að sje mjer kjörin himnavist. Ef óvini jeg elska mína, Þá á jeg skylt við Jesúm Krist, Og fæ mig kennt við föður hann, Er föllnum mildi og líknar ann.

4. Að nálægjast sinn náðarstólinn Ei neinum bægir hann frá því; Hans gæzku- eins og sumar-sólin Oss sjerhvern morgun rennur ný; Og Jesú dreyri drýpur enn Sem dögg á vonda og góða menn.

5. En áfelli það yfir oss leiðir, Ef upp á drottins syndgum náð; því heptum bræður hefnd og reiði, Og höfum Jesú blessað ráð: Þeim röðull hverfa reiðum vann Ei rennur má ske optar hann.

6. Svo komum þá, minn kristni bróðir! Og knýtum sáttar og tryggðabönd, því englar drottins gleðjast góðir, Nær góðgirnin fær yfirhönd, Og sömu vægð er sýnum hjer Hjá sjálfum drottni mætum vjer.

7. Vor faðir, drottinn! allra ertu, Og allir börn

þín köllumst vjer; Að elska frið vor aðstoð vertu Svo öðlazt getum líkn hjá þjer; Æ send oss blessan, líf og lið, Og leið oss alla' í himna frið!

## 78. Sálmur*.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

1. Hve fagurt, sætt og inndælt er Í eining þá menn búa; Nær hver til annars elsku ber, Öllu til góðs vill snúa! Sem læknismeðal mætt Mönnum fær heilsu bætt, Sjerhverri svo fær þjóð Samlyndi og eining góð Veitt heilsu og hreysti sanna.

2. Sem dögg frá Hermon fellur frá Frjófsemd og blessan gefur, Svo er um ást og eining þá Guðs andi kveikt sem hefur. Sálunni' hún færir frið, Fjör hennar lífgar við, Blessan og hvers kyns hægð, Heill, gleði, sóma, frægð, Um byggð og lönd út breiðir.

# 13. Jesú eptirbreytni.

## 79. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Lát mig Jesú! lyndan finnast Líkt og þú á jörðu varst; Þess mjer gef í þrautum minnast Þú hvað stilltur krossinn barst. Safnist hatursmenn að mjer, Mig þú styrk að líkjast þjer:

*) Sbr. 92. Davíðs sálm.

þeirra' yfir blindni' og brotum gráta Með blíðu hjarta þeim forláta.

2. Hjálp' mjer Jesú! hegðan þína Hafa fyrir augum mjer; Alla keppast æfi mína Einkum við að líkjast þjer, Mat og drykk er það ljezt þinn, Að þóknast guði hvert eitt sinn. Gef að ekkert eg það vilji Okkur nokkurt sinn er skilji.

3. Kenn mjer Jesú! hug minn hreysta Með helgri bæn í lífi' og deyð; Kenn mjer góðum guði' að treysta, Gleði hvort sem reyni' eða neyð; Hans mjer vilja lynda lát, Lát hans orð minn stilla grát; Hans mjer hjálpa verk að vinna Vinnudagar unz að linna.

4. Góði Jesús! virztu veita Vizku' og styrk þíns anda mjer, Stríð við hold og heim svo þreyta, Að hvorugt dragi mig frá þjer. Eg er fús, en orkan smá, Ó minn Jesús! statt' mjer hjá, Þú sem megnar þínum vinum þrótt að gefa' í vanmættinum.

---

# 14. Guðs orð.

---

## 80. Sálmur.

Lagið: Sæll er sá mann sem hafna kann.

1. Ó guð! sem heyrir allra raust, þinn anda virztu' oss gefa. Á þig vjer setjum allt vort traust, Unn oss þig rjett að lofa. Unn oss þitt

orð svo heyra hjer, Í helgri trú að styrkjumst vjer, Og lærum þjer að lifa.

2. Opnaðu þinna þjóna munn, að þinn oss birti vilja, öruggir gjöri' oss orð þín kunn, Og einskis hirði að dylja. Og hvað þú til vor tala villt, það taka jafnan lát oss gilt, Og veit oss vel það skilja!

3. Opna vor eyru, ó vor guð! Og stjórna voru sinni, Svo heyrum skírt þín heilög boð, Og höfum þau í minni. Gef hver og einn af hjarta sjer Um hugað láti að geðjast þjer, Og í því unan finni.

## 81. Sálmur.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

1. Gott er að koma guðs í hús Með gleði' eg þangað skunda, Hver skyldi ekki hverfa fús Hins heilaga til fundar? Hjer er sá staður herra kær, Er hjeztu' í náð að vera þeim nær, Af hjarta' er á þig kalla. Hjer viltu lofgjörð heyra mín, Hjer viltu kenna oss boðorð þín, Bænheyra' og blessa' oss alla.

2. Heilagi mikli herra guð! Hulinn í dýrðar-tjaldi, Þig fá ei augu syndug sjeð, Samt ertu guð um aldir. Þú býr í hæðum himnaranns, Hjarta þó nálgast sjerhvers manns Í trú sem til þín leitar; Ó guð! mig þyrstir eptir þjer, Ó guð! sem þörf míns hjarta sjer, Þinn fund mjer virztu veita.

## [illegible] Sálmur.

Lagið: Kirkju þína vjer komum í.

1. Hvað dýrðleg sól þín drottinn er Í dag að nýju runnin mjer, Allt lífgar hún í heimi. Til þín, þú ljóssins drottinn dýr! Í dag þinn lýður hjarta snýr, Veraldar glaum svo gleymi.

2. Þinnar dýrðar upp hefur hljóm Allt hvað sem gafstu líf og róm; Lækurinn, fjallið fríða, Loptið, ljósið og málið manns Miklar þitt nafn í einum krans; Þín kirkja er veröldin víða.

3. Á jeg aleinn að þegja þá, Þínum söfnuð mig slíta frá, Í heimsins solli sitja? Nei! það skal gleðja geðið mitt, Guð minn! að prísa nafnið þitt, Og húss þíns opt að vitja.

4. Fagur er himinn, fögur jörð, En fegra er þó þitt guðdóms orð, Ó faðir elskulegi! Í Jesú nafni' eg nálgast þig, Frá náðarfaðmi þínum mig Útiloka þú eigi.

5. Þó fyrnast hljóti' og falla' eitt sinn Vor fagri og mikli heimurinn Með öllum skepna skara, Þín himnesk orð og heitin blíð, Þín heilög boð og lögin fríð Um alla eilífð vara.

6. Hjálpa mjer guð! svo hjartað mitt Heiðri og geymi orðið þitt Sem auðlegð æðstu sína. Hjálp' mjer þinn dag svo halda nú, Að hræðist ei nær dæmir þú Helgidags hegðan mína.

## 83. Sálmur.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

1. Kóm þá Hin frelsta herrans hjörð, Heyrðu það orðið góða, Sem himni frá oss flutti' á jörð Frelsarinn allra þjóða! Hans rausn er himnesk náð, Huggun og blessuð ráð; Hans æðsta er það boð: „Elskaðu drottinn guð Og börn hans bræður þína"!

2. Ó maður! líf og sálu sem Í solli heimsins grefur, Hvert anar þú? Hverf aptur heim, Örstuttan frest þú hefur; Guðs röddu gætinn hlýð, Hans gæzkan einkablíð þín bíður, bíður hjer Og breiðir faðminn hjer, En vísast optar aldrei.

3. Ó drottinn þínu orði nú Unn oss með lotning' hlýða. Huga vorum til hæða snú; Þín himna gæzkan blíða Klökkvi vor hjörtu hjer, Svo helgumst allir þjer, Himneskan finnum frið, Fögnuð og inndælið Af náðar nálægð þinni!

## 84. Sálmur*.

Lagið: Kirkju þína vjer komum f.

1. Orð þitt, drottinn! er einka sætt, Öll fær það sálarmeinin grætt, Hver sem því helzt kann trúa, Burtsvipt því ei úr brjósti mín, Þó brotið hafi' eg ráðin þín; Lát það frá löst mjer snúa.

2. Herra! þjer fel jeg hjartað mitt, Við hætta freistni gjör það kvitt, Vek hjá mjer varúð sanna;

---

*) Eptir sjera Ólaf Einarsson á Kirkjubæ.

þinn andi byggi í brjósti mín; Brennandi trúna gef til þín, En ást til allra manna.

3. Himneski faðir, hjálpin mín! Haldist yfir mjer blessan þín Daga og dimmar nætur. Út breiða skal jeg orðið þitt, Áformið virztu styrkja mitt, Gef að bæn minni gætur.

## 85. Sálmur.

Lagið: Heiðrum vjer guð. af hug og sál.

1. Ó guð! á sannleiks orðið þitt Öruggt skal treysta hjartað mitt, Í neyð að hjálpa þeim hjezt þú, Á þig sem kalla' í sannri trú. Allt fram á lífsins efsta stig Eg skal því drottinn! hrópa á þig, Frá því skal ekkert fæla mig.

2. Ó, þá huggan í hverri þraut Að hverfa í þitt náðarskaut! Að mega leggja líf og önd, Líknsami guð! í þína hönd; Að hvert og eitt mitt andvarp hjer, Í Jesú nafni fram sem ber, Hefur þú geymt í hjarta þjer!

3. Já! öll það veit jeg andvörp mín Efalaust heyrir gæzkan þín; Viss er eg um þú veitir mjer Hvað velferð minni hentast er. þegar mín neyð og þörf er stærst, þá er þín blessuð hjálp mjer næst; Hvað þrávalt hefur þetta rætzt!

4. Ó faðir! þú og orðið þitt Athvarf skal jafnan vera mitt; Á því jeg aldrei þreytast vil þín að hrópa og flýja til. Hvað helzt sem mjer að

höndum ber, Herra! jeg skal ei sleppa þjer, Unz þinni býtir blessan mjer!

---

# 15. Bænin.

---

## 86. Sálmur.

Lagið: Öll náttúran enn fer að deyja.

1. Háleit gleði, himneski faðir! Huggun blíð og unaðsemd það er, Að dupti ljeztu vanmáttku vinnast Veg til þín hinn almáttki finna.

2. Þá jeg nokkurs þarfnast af gæðum, Til þín jeg kvaka, mildin á hæðum! Það mig skortir, þú hjezt mjer veita, Þegar í nafni Jesú þess leita.

3. Fagurt er það fyrirheit góða, Faðir minn! En þú rjeðst og bjóða, Að ei jeg biðji' um annað nje þrái En þín speki heilnæmt mjer sjái.

4. Æ, hver veit það eins hvað mjer hagar, Ó minn guð! og þú, er svo lagar Allt með speki ástljúfri þinni, Að algóðan þig sjerhver loks finni.

5. Láttu, hvað sem hlýt jeg að reyna', Helga bæn við þig mig sameina, Og mjer frá því engan hlut bifa Að elska þig og guðlega lifa.

## 87. Sálmur.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Vor guð oss sjálfur biðja bauð, Það býður og vor eigin nauð; Þess bæn sem trúir heyrir

hann, Er hvers eins þekkir innra mann. Til guðs sem vinar flúið fá, Hvað fær við sælu jafnast þá?

2. Ó hygg að, maður! hvað það er, Sem hefur þú af sjálfum þjer. Sjá! allt það gott, sem gleður þig, Er gjöf þíns drottins föðurleg; Allt meir þjer veitti' hans mildin trú Og miklu betra' en skynjar þú.

3. Í nafni Jesú, barn guðs! bið; þá blasir þjer guðs faðmur við. Hann anda síns þjer sendir náð, Hans svölun, ljós og styrk og ráð; þá fær þú hjálp á hentri tíð, Og hvert eitt sigrar andar stríð.

4. Með trú og auðmýkt bæn fram ber, Og bið að drottinn veiti þjer það eitt, sem honum þykir bezt, Og þína velferð eflir mest; þín sál þá barnsins finnur frið, Sem föðurbrjóstið hvílir við.

5, Nær fyrir guðs þú krýpur knje, þitt klökkt og ástríkt hjartað sje, Og nauðsyn bræðra þinna þá Skalt þú hjer góðfús minnast á; Og óvin eins og vin þinn vel þú vernd og miskunn drottins fel.

6. Ó, hvílík svölun hjartanleg, Himna faðir! að kvaka á þig. Æ virztu' að helga vora sál, Svo vort þjer geðjist hjartans mál; Og frá þjer líknsamt fái svar, þú faðir allrar miskunnar!

## 88. Sálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

1. Ó guð! jeg hrópa' á þig og þreyi, Nær þú með reynslu vitjar mín. þitt hjarta lukt þú læt-

ur eigi, þeim líknarþurfi flýr til þín. Hjá þjer ei mátt til hjálpar þver: Og hvað þjer þóknast gott það er.

## 89. Sálmur.

Lagið: Hátt upp í hæðir.

1. Í hæð minn andi, Ó drottinn! til þín snýr, Bljúgur, biðjandi, Brjóst þinnar gæzku knýr; Heyr mig í Jesú nafni nú: Kom helgur herra :,: Og hjá mjer vinztu bú! :,:

2. Ást, eining, friðinn, Ó guð! þitt fylgdarlið, Míns hjarta hliðin Og hús mitt geyma bið. Þinn andi, faðir, fylgi mjer Úti og inni :,: Og alstaðar hvar jeg fer! :,:

3. Mjer vertu' í minni, Svo megi' ei gleyma þjer. Sýn mjer hvert sinni, Sannlegt og rjett hvað er. Þíns anda kraptur knýi mig Öll verk þau vinna, :,: sem veit þjer þóknanlig. :,:

4. Ef eg hlýt líða, Auglýs mjer tilgang þinn; Hjálp mjer að hlýða Og hepta vilja minn. Þú sterki guð mig styrktu þá Holds fellur hreisi :,: Og himni lát mig ná! :,:

---

# 16. Skírnin.

---

## 90. Sálmur.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

1. Þú sagðir, Ljúfi lausnarinn! „Leyfið að börnin megi Blessuð á fundinn berast minn, Og bann-

ið þeim það eigi". Þú helgan anda enn í dag þeim ofan af himni sendir, Sem hefur barnsins hjartalag, Og huga til þín vendir, Með flekklaust hjarta og hendur.

2. Með náð guðs anda glæpum frá Oss gjörir skírnin hreina, Og guðs orð oss hin góðu þá Við guð í trú sameina. Sá skírn og trúin veitast vann, Og varð að nýju fæddur, Á fyrirheit guðs föðurs hann, Frelsarans elsku gæddur, Sig reiðir hreint óhræddur.

3. Þíns Jesú minning barn guðs ber Í brjósti um æfi þína! Það verður himnesk huggan þjer, Og helzt þá æfin dvínar. Ok hans þjer taktu herðar á, Ei hann að játa gleymir; Guð hefur á þjer þóknan þá, Og þegar fer af heimi, Hann þekkir þig og geymir.

4. Ó, vendum allir veg guðs á, Og verðum börnum líkir! Því að eins hjarta hreinir fá Í himna komizt ríki; Og byrjum nýja betran nú, Vorn barnarjett ei smáum, Í elsku vöxum von og trú, Guðs vináttu svo náum, Og henni haldið fáum.

---

## 17. Kvöldmáltíðin.

---

### 91. Sálmur.

Lagið: Jesús! þín minning mjög sæt er.

1. Jesús! þín minning inndæl er, Og æðstu

hjartans gleði ljer! Hvað mjög má prísa sælan sig Hver sem af hjarta elskar þig!

2. Hvað inndæl raustin er mjer þín? Þitt orð er dýrsta huggan mín. Þú ert sá vin er fannst mjer frið, Og fríar synda byrði við.

3. Þú ert þess vin er iðrast vann, Angráðan gjörir hughraustan; Þíns hjarta blóðsins heilög lind. Oss hreinsað fær af allri synd.

4. Jesús er unan hjartans hýr, Og hugsvölunar brunnur dýr; Hann upp til hæða hefur þann, Er harma byrði þrykkjast vann.

5. Vor skynsemd ei það skilur ljett: Guð skuli sýnt fá náð fyrir rjett; En hjartað, við hans gæzku glatt, Svo gjörla finnur það er satt.

6. Mitt athvarf, Jesús! er til þín. Öll á þjer byggist vonin mín; Frá heims tvídrægni hroka' og flærð Jeg hjá þjer öðlast ró og værð.

7. Nær jeg að morgni' á fætur fer, Á fund míns Jesú hraða jeg mjer; Hans orð, sem geymi hjarta í, Jeg hjá mjer upp þá vek á ný.

8. Konunga Jesús æðstur er, Hann allt með sínum krapti ber; En þeim hann trúa öruggt á Í ást og mildi býr þó hjá.

9. Ó mildi Jesús, mjer vert hjá! Því mín er sála hólpin þá. Án þín hún enga hefur hægð, En hjá þjer líf og fulla nægð.

10. Úr hjarta því, sem hyllist þig, Og hiklaust

á þig reiðir sig, Hjegómi synd og heimska flýr, En heilög þangað ást þín snýr.

11. Þín elska, Jesús! er það hnoss, Mót allri freistni' er vopnar oss; Hún allra meina er oss bót, Hún afplánar vor brotin ljót.

12. Þín ást, er fram í andlát brann, Þín undin sem á krossi rann, Þinn dauði sem að dauðan vann, Þá dýru lausn oss öllum fann.

13. Í heim til vor af himni stjest, Þín heilög verk oss unnin ljezt. Þín kvöl og dauði keypti' oss frið, Og kom'í sátt þinn föður við.

14. Þú sjálfur búa hjezt oss hjá, Svo haft vjer gætum traust þjer á; Og andans trú oss aukizt sú, Af ást er sprettur, von og trú.

15. Með blessuðu víni og brauði hjer Oss breiskum nýjan styrk þú ljer. Víðfrægja deyð vjer viljum þinn Unz veröld þrýtur, drottinn minn!

16. Sá þjer í trúnni tekur við, Og tryggða geymir sáttmálið. Hann ríki guðs í brjósti ber Og beztu finnur hvíld í þjer.

17. Ó Jesús! helga hjörtu vor, Og hvert þar afmá synda spor; Þau opna, vek og viðkvæm ger, Að við þjer tökum sem oss ber.

18. Já, nú og ætíð oss vert hjá; Allt illt, ó Jesús! rek oss frá. Gef oss loks frelsi frítt við kíf, Farsælan dauða' og eilíft líf.

## 92. Sálmur.

Með sama lagi.

1. Með klökku kem jeg hjarta hjer, Ó herra Jesús! móti þjer. Mín sála girnist sætleik þinn Að sjá og smakka drottinn minn.

2. Þú býður öllum blítt til þín; Það boð nú girnist öndin mín. Jeg fram kem hjer því fyrir þig; Æ frá þjer ekki rek þú mig.

3. Jeg vesæll syndum vafinn er; Mig vjelað hafa burt frá þjer Hinn vondi heimur, hold og blóð, Og hála teygt á glæpa slóð.

4. Jeg hefi til þín hugsað títt, en hrasað jafnan upp á nýtt; Jeg samvizkunnar sviða fann, En sofna þó hún hjá mjer vann.

5. Þú enn mjer hefur boðið blítt, Og blys jeg slokknað kveikt á nýtt. Á brúðkaups salinn hrelldur hjer Með hræðslu' og blygðan klappa fer.

6. Á þrotum tíminn óðum er, En eilíft myrkur nálgast mjer; Og eilífðin er ógnarleg þeim ekki sáttum ná við þig.

7. Heitt elskaðir mig eitt sinn þú; Æ ertu' ei drottinn samur nú? Jú, enn fær kvittuð afbrot sín Hinn iðrandi sem flýr til þín.

8. Ó sýn og Jesús! miskunn mjer, Og mig ei burtu rek frá þjer; Þú heimsins undir sveittist synd; Æ svala mjer af náðar lind.

9. Þó boð jeg bryti þrávalt þín, Þú þekkir líka

tárin mín, Og veizt að eg þó elska þig; Æ ekki rektu frá þjer mig.

10. Þú drottinn ert svo gæzku gjarn, Þjer geðjast sjerhvert auðmjúkt barn. Hjálpræðis máttinn helga þinn Í hrelldu brjósti strax jeg finn.

11. Jeg finn, að náð þíns anda er Að eflast nú í brjósti mjer, Og brauðið himni fallið frá Mjer færir sælu og blessan þá.

12. Í gleði breytist bölið mitt, Nær borð jeg nálgast heilagt þitt; Því borinn er af himni hjer, Þinn hugsvölunar drykkur mjer.

13. Þar er mjer himneskt borið brauð, Sem bætir hverja sálarnauð; Jeg ekki kvíði örbyrgð mín. Mig elska ríkan gjörir þín.

14. Ó, kom þá Jesús minn til mín, Og mitt sje brjóstið hvílan þín. Mín trúin lampi þar sje þinn, Þjer þjóni von og kærleikinn.

15. Og nær þú kvöldverð heldur hjer; Jeg hallast vil að brjósti þjer, Sem sá nam gjöra sveinninn fyr, Er sjálfur mest þú elskaðir.

16. Þó eignast gæti' eg allan heim, Af anði gagn hvað hef jeg þeim? Æ ef jeg drottinn! er án þín, Hann ei fær bjargað sálu mín.

17. Ef þig að eins jeg herra hef, Um himin ei nje jörð jeg gef. Hver sem með þjer er orðinn eitt, Um eilífð hann ei skortir neitt.

18. Að eilífu skal eg við þig, Minn ástvin Jesús!

halda mig; Mín gleði' og styrkur lífs á leið, Mitt líf þú ert og von í deyð!

## 93. Sálmur.

Lagið: Svo elskaði guð aumann heim.

1. Ó Jesús! kom, jeg kalla' á þig, Ó! kom til mín og bú þú mig Undir þá stund er að nú fer, Eg vil setjast til borðs með þjer.

2. Þú stígur helgum himni frá, Og hjer til sælu vígir þá Með elsku þinni' er aldrei þver, Sem allt sitt hjarta gefa þjer.

3. Jeg gef þjer hjer mitt hjarta' og ráð; Æ helga mig af þinni náð; Jeg vil um eilífð vera þinn, Vernda og leið mig drottinn minn.

4. Vertu nú ungdóms athvarf mjer! Þú aldrei börnin rakst frá þjer. Um heimins villu hætta stig Hjálpaðu mjer og leiddu mig.

5. Láttu mjer skína ljósið þitt, Svo lífsins skeið jeg rati mitt; Ef freisting hætt að hendi ber, Ó herra! stattu fast hjá mjer.

6. Íhuga gef mjer elsku þín, Og allt sem leiðstu vegna mín; Og unn mjer hafna öllu þá, Sem angra þig og styggja má.

7. Unn mjer þá heyra ávarp þitt: „Æ vertu hjá mjer barnið mitt! Því engan vin þú átt sem mig, Jeg út gaf lífið fyrir þig“.

8. Já! næsta klökkur næmt jeg finn, Að nú er

hjá mjer andi þinn; Jeg vil að ástvin eiga þig,
Og elska' af hjarta' — en styrk þú mig.

---

# 18. Fyrirbænir.

## 94. Sálmur.

Lagið: Vors herra Jesú verndin blíð.

1. Blessa vorn konúng, lýð og lönd, Líknsami guð!
og verndar hönd Breið yfir bæði hreisi og höll,
Og hjálpa svo að verk vor öll Í friði og eining
vinnum vjer, Með von og elsku' og trausti' á þjer.
Án þín vor máttur ekkert er.

2. Gef oss þolgæði, gef oss dug, Góði faðir!
og styrkan hug Sjerhverja þraut að sigra' og
neyð, Sem oss mætir á æfileið. Ó guð! varðveittu
oss þinn lýð, Vort athvarf skaltu fyr og síð.
Ætíð sje oss þín ásján blíð!

## 95. Sálmur.

Lagið: Í Babýlon við vötnin ströng.

1. Guð feðra vorra, gæzkan trú! Guð, faðir
manna' og þjóða! Vernda, farsæl og friða þú Vort
fósturlandið góða. Kærleiks og friðar fögur bönd
Fast lát samtengja brjóst og hönd Gjörvallra lands-
ins lýða. Þinn góður andi gefi' oss náð, þín guð-
dóms orð og sannleiks ráð Ljóst skilja' og ljúft
þeim hlýða.

2. Nú bræður! hjarta eitt og önd Í öllum landslýð búi; Hver ósk, sem nokkri hreifir hönd, Til heilla öllum snúi. Að jafna skyldu' og jafna rjett, Það játum vjer oss takmark sett, Og allir að því stefnum, Öll ánauð hverfi' og öfund flá, En andi Krists oss glæðist hjá, Og stjórni' í öllum efnum.

2. Styrk, faðir! þá sem feðra byggð Með feðra manndóm stoða, Sem efla sannleik, dáð og dyggð, En dreifa lasta voða. Hver velferð stundar lýðs og lands, Og ljettir byrði aumingjans, Þess virztu' í mildi minnast. Blessa hvern fund um frelsi og dyggð; Með fögnuði loks í engla byggð, Ó guð! oss gef oss að finnast.

## 96. Sálmur.

Lagið: Gef þinni kristni góðan frið.

1. Blessi þig herrans höndin mild Hjartkæra föðurlandið! Veri þín hlífð og vörnin gild Mót voða og öllu grandi; Hersveit hans við hlið þjer standi!

2. Guð þinn til lukku greiði stig, Og gjöri blessan fylla! Guð elski þá er elska þig, Til auðnu þinnar stilla. Vei þeim sem þjer vilja illa.

3. Sannleikur, eining, ástúð hrein, Og allar góðar dyggðir Út breiði sig á alla grein Um allar þínar byggðir; Flýi villa, flærð og styggðir.

4. Dafni vor börn á brjóstum þín Sem blóm í

blíðum dala, Og gæti jafnan sóma sín: Sannleikann gjöra' og tala, Hefjist svo til himna sala.

5. Frjálslyndi, manndáð, frjófsöm dyggð Oss flói' í brjósti og æðum; Guðrækni' og friður blómgi byggð Beztu farsældar gæðum. Gef oss þetta guð á hæðum!

## 97. Sálmur *.

Lagið: Einn herra eg bezt ætti.

1. Herra í heiðri sönnum, Vor hjálpin traust og líf! Æ vert þú öllum mönnum Athvarf, styrkur og hlíf; Harmandi þreytta' og þjáða þig biðjum faðir kær! Að hugga, hressa' og náða, Hvað sem þeim amað fær.

2. Ó guð! þeim veiku vertu Með vægð og miskunn hjá; Hjúkrun og hjálp þeim sjertu Höndin þín frelsi þá; Lát þá örmagnast eigi Í eymd og hörmung sín; Hjálp' þeim svo hefja megi Sín hjörtu upp til þín!

3. Fæð þú föðurleysingja, Og fátæk smábörnin; Alla sem örbyrgð þvingar, Að stoðarlausa menn. Ó föðurlausra faðir, Og forsvar ekkna bezt! Vert þeirra vernd og faðir, Sem verndar þarfnast mest!

4. Gef þú þeim styrk að standa, Sterki drottinn! í þjer, Sem frek vill freistni granda, Fall og tjón búið er, Svo að þeir sigri nái Fyr son þinn Jesúm Krist, Og fyrirheitna fái Fullsælu' í himna vist.

*) Eptir sjera Sigurð Jónsson í Presthólum; mikið breyttur.

# 19. Sálmar til vissra tíma.

---

*a.* Haustsálmur.

## 98. Sálmur.

Lagið: Í Babýlon við vötnin ströng.

1. Í hryggðarskrúð býr sólin sig, Og sjer frá oss vill hraða, Og seint upp rennur raunaleg Úr roðanum ský-kólgaða. Hin fagra liðin árstíð er, En ísköld hret og stormaher Allt landið hrjá og hrella. Jörðin er föl og sollin sút, Og sjerhver jurtin niðurlút, Því blóm varð fögur fella.

2. Vor fögru tún má fréðin sjá Og farna gull-kápuna, Og hrygga undir hörðum snjá Sig hylja náttúruna. Sig flokka rjeð um fjöll og strönd Og flaug af stað í betri lönd Hinn fríði fugla skari; Guð almáttugur annast þá, Hann einn er bæði' á landi' og sjá Fylgd þeirra' og forsorgari.

3. Enn oss í kuldans eigin byggð Hann annast vill og geyma; Hans föst ei brugðizt fær oss tryggð, Er fuglum ei kann gleyma. Og engin neyð oss neitt fær gjört, Ei nóttin vetrar köld og svört, Því oss vill herrann hlífa; Hann björg hins lóna blessað fær, Og blysið náðar skært þeim ljær, Sem í hans ótta lifa.

4. Ó guð! hvað skjótt vor æfin þver? Oss árin með sjer bera; Kenn oss að svo sem sáir hver, Hann síðar upp mun skera, Svo ellin verði' oss angurs frí Sem æskustundin glöð og hlý, Vor

heiður hárin gráu; Og æfi haustið að sem fer í inndælt vor það breyti sjer, Hvers allt af sól vjer sjáum.

## b. Kvöldsálmar.

### 99. Sálmur*.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Lífsins æðar uppfyllandi Örfist nú og lifni blóð; Minn sig hefji allur andi Upp til guðs á himna slóð. Ó mín sál þú ert dýrkeypt, Iðju-leysi' er því ei leyft, Heldur ber með hug og tungu Herrans lof sje af þjer sungið.

2. Því svo vítt sem himins hæðin Hvolfist kring-um fold og ský, Gefst til orsök að menn skoði Almátt guðs og dýrð þar í; Engin sól svo undir gár, Að ei gefist rökin klár Oss til guðs með iðr-an venda Áður en kvölds er ljósið tendrað.

3. Ó guð! skylt mjer er að játa, Óverðugur mjög þó sje, Að þú þreytist ei að láta Alls kyns gæzku mjer í tje. Líkþrá synda' í barmi' eg ber Bart þó ei þú skúfar mjer, Heldur líkn og lækn-ing veitir, Ljúft sem faðir við mig breytir.

4. Hversu mörgum heilla dögum Hefur þú við líf mitt bætt, En jeg hef — það er mín klögun — Ekki þessa jafnan gætt; Hvað opt hefur sólin sig Sýnt, og brennt guðs mark á mig, Sælli náðartíð svo tæki, Tíðum sem jeg mjög afræki.

*) Eptir sjera St. Ólafsson; lítið breyttur.

5. Þessum degi', er dregst að kvöldi, Dreg jeg þúsund merki af Um þinn máttinn, vægð og veldi, Veslum mjer sem náð þín gaf, Moldarauka og maðka sekk; Mínu jeg frá verki gekk Yndisnægtum umfaðmaður, Alheill bæði, fær og glaður.

6. Ó minn guð! eg ei skal venda Upp í mína hvílu fyr En þá illu saurgan synda Sem í mínu hjarta býr, Eg hefi látið angra mig, Og hvað mjög eg styggði þig. Drottinn! ef í dóm þú gengir, Þár mjer veittist framar enginn.

7. Eg sný drottinn! auga mínu Á þíns sonar bitran deyð, Minnist þess hvað megna pínu Mína fyrir synd hann leið; Hann tók mína sekt á sig, Sár og kaunin hryggilig; Því skal jeg harma' og hata' hið ranga, Og hans á vegi keppast ganga.

8. Ó guð! halda yfir mjer vöku Englum þínum bjóða ger Í náttmyrkurs þyngsla þoku, Þá jeg veit ei neitt af mjer; Veit að sál mín vaki þá Værð er líkamanum á; Þína sjái dýrð í draumi Dauð frá heimsins syndaglaumi.

9. Grið og friður slys af slái Sem slagbrandar um menn og lönd; Böl og óhöpp byggð ei nái, Blessuð oss þín verndi hönd. Rjettlætisins sanna sól! Send oss öllum hlífð og skjól; Höllin kongs og hreisið lægsta Hreppi vernd og forsvar nægsta.

10. Út af skal hjer upp á leggjast; Eigðu Jesús dvöl hjá mjer! Eg míns hjarta innan veggja Upp nú reiði hvílu þjer. Heims áhyggja, happ og

nauð Hverfi burt og liggi dauð. Ys veraldar eg vil hafna, Og hjá mínum Jesú sofna.

## 100. Sálmur.

Lagið: Guðs vors nú gæzku prísum.

1. Ó guð! þá aðrir blunda, Og allt er kyrrt um mig, Við þig jeg fer til funda, Faðir! og lofa þig; Hark þegar heimsins dvín, Eg vík í einverunni Að hinum helga brunni, Sem svalar sálu mín.

2. Þá fegurð hverja hylur Húmið jörðunni á, Og ljóma dagsins dylur, Þín dýrð mjer opnast þá Frá helgri himna bygg𝔡, Svo inn í sálu mína Sannleiki og náðin skína, Öll dreifist dimma' og hryggð.

3. Það ljósið bezt, er ljeði þín líkn um nætur stund Mjer veitir værð og gleði, Vaggar í sætan blund; Við það jeg vakna' á ný. Meðan þú, faðírinn mætur! Mig hjer uppalast lætur Frumskóla foldar í.

4. Æ lát mig aldrei sakna, Ó faðir! náðar þín, Unz jeg þar eitt sinn vakna, Þá endar hjervist mín, Sem sjálfur sól einskær, Ert þú, og eg þig skoða, Eilífan friðar boða, Og kem þjer nær og nær.

## 101. Sálmur.

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta

1. Einn er dagur enn þá liðinn, Aldrei framar kemur hann. Nýja nótt með nýjan friðinn Náðin guðs mjer senda vann. Þú ert, drottinn! sjer-

hvert sinn Sami náðar faðirinn, Vora daga, vorar nætur Víst þú hjá þjer taldar lætur.

2. Eg mig fel í umsjón þína Öruggur þá sólin flýr; þökk þjer fram ber þíða mína þegar ljómar dagur nýr. Berji dauðinn dyrum á, Drottinn! mig það huggi þá, Að í dauða eins og lífi Eilíf miskunn þín mjer hlífi.

## 102. Sálmur.

Lagið: Greinir Jesss um græna trjeð.

1. þessi dagur á enda er, Ó guð, minn guð! jeg þakka þjer Alla þá náð, er nú sem fyr Mjer náðarsamur auðsýndir.

2. Meðtak mig, breiska barnið þitt, Bezti faðir! og gef nú kvitt Brotin mín öll, svo blíðu þín Búa finni' eg í hjarta mín.

3. Líf mitt og sál með traustri trú, Trúfasti guð! þjer fel eg nú; Í þínu nafni svo um sinn Sofna jeg glaður drottinn minn.

4. Höndin þín blessuð hlífi mjer Við hverju því sem skaðlegt er. Hjá þjer mitt athvarf allt jeg hef, Af öllu hjarta þjer mig gef.

5. Heilbrigðum vakna veit þú mjer, Ef viljinn góði þinn það er. Snúist minn dúr í dauða' eða pín, Drottinn! frelsaðu sálu mín.

## 103. Sálmur.

Lagið: Hvað góðgjarn ertu Kristur kær.

1 Minn góði guð! jeg þakka þjer Fyri þenn-

an dag sem liðinn er; Og hvert það stig er flutt mig fær Friðsæln þinnar bústað nær.

2. Ferðamaður á foldu hjer Ei fastan bústað á jeg mjer. Næt dagferð hver því úti er, Eg leita, guð minn! skjóls hjá þjer.

3. Líkamans hvíld þig blessa bið; Í brjóst mitt einnig send þinn frið; Ef vegi þínum veik eg frá, Veit mjer þess gætá' og að mjer sjá.

4. Styrk mig nær eg á fætur fer, Ó faðir minn! að geðjast þjer, Og auðsýna þjer elsku mín Með ást og hjálp við börnin þín.

5. Styrk mig að feta feril þann, Minn frelsari sem þræða vann, Með gáfum þeim er gafstu mjer, Að gagnast heimi og þjóna þjer.

6. Þú þekkir breiskleik mikinn minn, Æ miskunnsami faðirinn! Í Jesú nafni náð mjer sýn, Í náð og mildi lít til mín!

7. Í þeirri sofna von jeg vil, Og vakna glaður starfa til, Og þína hönd mjer halda við Unz himna leiðir mig í frið.

## 104. Sálmur.

Lagið: Þjer mikli guð sje mesti prís.

1. Í foldar skugga' er svifin sól, Nú sá hinn þreytti hvílast nær, Hins sjúka upp er búið ból, Og blund hið grátna augað fær.

2. Eilífi drottinn! augu þín þau alein vaka ei

þreytast par; þú lifir æ, þitt ljós ei dvín, Lífsins faðir og birtunnar!

3. það sem þú skaptir, ó guð! einn, Með orði máttar þíns þú ber, Alvitur, góður, helgur, hreinn. Allt hvílist það í skauti þjer.

4. þú gefur lúnum þæga ró, þú gefur sjúkum líknar stund; Og hjarta, það sem hryggðin smó þín hressir mildi' í værum blund.

5. þú virðist líka' að minnast mín, Og mig nær dagsins þreyta lýr, Mjer hjálpar blessuð hönd-in þín, Og hvíld að aptni þreyttum býr.

6. Hvíldu nú einnig hjartað mitt, Himneski sálna vinurinn! Gjör það við eymd og kvíða kvitt, og kveik þar ljós og friðinn þinn.

7. Æ gefðu mjer að sofna sætt, Eg sálu' og líf þjer guð minn fel. Nær þín fær heilög hönd mín gætt, þá hlýtur mjer að líða vel.

## 105. Sálmur.

Lagið: Öll náttúran enn fer að deyja.

1. Einhvern tíma í seinasta sinni Sæng til hvíld-ar leggst jeg í minni; Bláköldur mín bíður í foldu Beður þröngur, gjörður af moldu.

2. Engan þó mjer eykur það kvíða, Eg þar finna værð mun svo blíða, Unz til dags, ei enda sem tekur, Almáttug guðs raustin mig vekur.

3. Sálar minnar, guð minn! æ gættu, Glæpa-

svefnsins forða við hættu, Og við heimsins fláræðis friði, Fölsk þó gæði öll sín mjer byði.

4. Í Trúnni styrk mig verk mín að vinna, Og veginn ganga boðorða þinna; Vært til svefns þá vil jeg mjer halla, Vakna glaður þegar þú kallar.

## 106. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Sól og gleði sálar minnar! Sjá, jeg mæni upp til þín. Hjarta mitt til hvílu þinnar Helga girnist öndin mín; Kom þú drottinn mildi minn! Mikla vil jeg lofstýr þinn; Þig með klökku þeli prísa, Þinni gæzku við mig lýsa.

2. Skarinn stjarna á himna hæðum, Herra! lofgjörð syngur þín; Því er skylt með skýrum ræðum Skaparann prísi tungan mín, Hann sem gaf mjer munn og mál, Mörgum gáfum prýdda sál, Og í dag mig engu svipti Af þeim gæðum fyr mjer skipti.

3. Sjá! jeg kem með klökku hjarta, Kvæði lofs að flytja þjer, Auglitinu blíðu bjarta Bið þú virðist snúa' að mjer. Guð, mín unan eilíflég! Í þjer lifi og hrærist jeg; Þín ber mildin mig á höndum, Mjer frá dauðans forðar böndum.

4. Ó, að hver og einn minn væri Andardráttur lofsöngs hljóð! Ó að hver mín athöfn væri Ilmsæt drottinn þjer, og góð! Hreifing sjerhver

hjarta míns Heilags blærinn anda þíns, Allt mitt líf það offrið góða, Eg þjer glaður dirfist bjóða!

5. Hreinsa mig af saurgan synda, Send mjer helgan anda þinn! Freisting hættri frá mjer hrinda Frelsari mjes hjálpa minn; Sálu minni send þú frið; Svo, þá hverfur náttmyrkrið, Endurnærður elsku þinni Öruggur þjer þjóna kynni.

6. Þreyttur leggst jeg nú til náða, Náðar faðir! gættu mín; Alla mædda, alla þjáða Endurnæri miskunn þín. Gef þú öllum góða nótt; Gef að morgni nýjan þrótt Öllum þeim þú aptur vekur, Eilíft líf þeim burt þú tekur.

---

## 20. Barnabæn.

### 107. Sálmur.

Lagið: Allt mitt ráð til guðs jeg set.

1. Ó Jesús bezti bróðir minn, Þú barna ljúfi vinurinn! Þjer vil jeg þakkir gjöra; Þín milda hönd, sem börnin bar, Blessaði mig nær skírður var; Hjá mjer þú villt æ vera.

2. Æ! minn frelsari eg þig bið, Sem ert svo góður börnin við, Lát okkur aldrei skilja; Því ef þú Jesús ert mjer hjá, Eg verð gott barn og læri þá Míns guðs að gjöra vilja.

3. Frá öllu vernda illu mig: Lát orðin ljót og syndsamleg Ei koma mjer af munni; Sakleysi

geyma mjer gef mitt, Um miskunn guðs og ríki þitt Svo viss jeg vera kunni.

4. Af himni lát mjer hjálp í tje, Svo hlýðið barn og gott jeg sje, Þinn andi æ mig leiði; Þinn góður engill gæti að mjer, Og greiði veg minn hvar jeg fer, Svo ekki mig jeg meiði.

5. Ef sjúkur jeg eða saklaus græt, Æ! sjá mig þá, og úr því bæt Öllu, sem að mjer gengur. En heim mig beri í himininn Heilagur englaskarinn þinn Nær lifa má ei lengur.

---

## 21. Huggan hins blinda.

---

### 108. Sálmur.

Lagið: Til þín heilagi herra guð.

1. Jeg fæ ei sjeð guðs fagra dag, Sem fuglinn minnsti prísar; Þó má jeg una mínum hag Og mildi drottins lýsa. Mín hugskots sjón því óskert er, Guðs andi býr í hjarta mjer, Hans ljós mjer veginn vísar.

2. Hvað ekki sjá mín augu veik, Það andans sjón mjer kennir; Guðs mildi, speki og mikilleik Og mátt jeg sje með henni; Jeg sje þá líkn sem leiðir mig Og lagði svo minn æfistig, Að hug til hæða renni.

3. Minn, Jesús! vinur enn þú ert Og athvarf blindra manna; Þú huggar blítt, þá böl fær snert,

því böl rjeðst mannlegt kanna; þú lítur einnig ljúft til mín, Mig leiðir ósjeð höndin þín Í húmi hörmunganna.

4. Þú vildir líka lýsa mjer, þú ljós veraldarinnar! Þín orð jeg fæ að heyra hjer, Sem hjarta guðs mjer kynna. Þú býr og einnig borðhald mjer, Og blítt að hjarta vefur þjer Með örmum elsku þinnar.

5. Guð minn! mín unan er í þjer, Í þjer jeg sofna og vakna. Nær gleði þá þú gefur mjer, Jeg glaumsins ekki sakna. Þó heims á dýrð mjer hvirfi sýn, Mjer himnadýrð því fegur skín, Nær myrkra-reipin rakna.

6. Sú dimm sem hylur nótt mig nú, Hún nýjan dag mjer boðar, Mín augu þegar opnar þú Við uppheims morgunroða. Þó heims jeg fái' ei sól að sjá, þitt sæla auglit skal jeg fá Um alla eilífð skoða.

---

## 22. Eptir sjúkdóm.

### 109. Sálmur.

Lagið: Ó drottinn alls valdandi.

1. Ó guð sem öllu skiptir: Óhreysti og heilsu, lífi og deyð, Mín þökk til þín sjer lyptir, Þú sem frelsaðir mig úr neyð. Von var mín öll á enda

Eymd og pín Sára' jeg kennda, En hönd nam þín Hjálp og líkn mjer senda.

2. Þín er miskunnin mæta Á morgni hverjum fersk og ný; nær hjartað harmar græta, Hugsvalar þú og líknar því; Líkams neyð Líka breytir, Líf í deyð Mildur veitir, Hönd þín greið Heljar brýtur skeyti.

3. Mig þegar sorgin særði, Sál og líkama þjáning skar, þín blessuð náð mig nærði, þá neyðin hæst og sárust var. Æ! hvað má Eg þjer gjalda Utan tjá þökk margfalda, Og hjeðan í frá Fast mjer við þig halda?

4. Hjálpa mjer, herrann góði! Heitin við þig að efna mín, Bæði hátt og í hljóði Himneskrar minnast gæzku þín. Andi þinn Æ mig leiði, Aldrei minn Fót svo meiði; Til himins inn Hinnsta sporið greiði.

## 110. Sálmur.

Lagið: Hver sem að reisir hæga byggð.

1. Ó guð! lát sjúkdóm líkamans Lækning sálunni veita; Gefir þú aptur heilsu hans, Hjálp oss þess vel að neyta; Líkama' og sál svo látum vjer Lifandi gjörast offur þjer, Og æ þíns lofstýrs leita.

## 23. Við vígslu presta eða innsetningu í embætti.

### 111. Sálmur.

Lagið: Kristnir menn um fram allir tíðir.

1. Þú sálna vorra hirðir hái, Þú herra og guð þíns safnaðar! Sem enn í dag það annast náir, Að ávalt sjeu vaktarar, Er sauða þinna gjöri gá, Í góðum högum fóðri þá.

2. Send liðsemd drottinn þjónum þínum, Er þína geyma skulu hjörð; Af eiginn mætti enginn sínum því orkar maður þess á jörð; Styrk þá að bera byrði þá, Er bætztu þeirra herðar á.

3. Æ! gef þeim náð þíns góða anda, Og girð þá vopni sannleikans; Í allri freistni, voða' og vanda, Þá verndi og efli styrkur hans. Með gáfum þá og gæfu krýn, Ó guð! að dýrð út breiði þín.

4. Lát þá svo fræði heims ei hylla, Að heilög falsi orðin þín; Lát ótta ei nje vild þá villa, Svo vogi raust ei hefja sín. Það brjóst þeim gef er birta kann Með blíðu og djörfung sannleikann.

5. Gef þeim, er öðrum veginn vísa, Að veginn sjálfir þræði rjett; Og sjeu fögur ljós er lýsa Og ljóma skært í sinni stjett. Verk þeirra góð og vegsamleg, Svo vegsamlegan gjöri þig.

6. Ó lífsins guð! á lífsins vegi Þeim leiða kenn þú börnin þín; Svo hirðar bæði og hjarðir megi,

Nær hjervíst fallvölt eitt sinn dvín, þjer yfirhirðir æðsti hjá Í unað himna safnaðt fá.

---

# 24. Dauðinn, eilífðin, dómurinn

## 112. Sálmur.

Lagið: Þegar kvalarar krossinn á.

1. Senn hverfur lífsins hryggð og pín, Frá heimi snart jeg vendi. Ó Jesús sálu meðtak mín Miskunnar ljúfri hendi. Hana þú gefið hefur mjer, Hana jeg, drottinn! aptur þjer þreytta og særða sendi.

2. Afmáð lát vera æ og kvitt Allt sem jeg hefi brotið; Burt tek ei fáráatt barnið þitt, Bjargar og máttar-þrotið; Já hver sem ítrast synda sín Svo flýr í bæn og trú til þín. Eflaust fær náðar notið.

3. Á þjer Jesús er allt mitt traust, Þín eins jeg gjöri leita; Þú heyrir mína hjartans raust, Um hjálp mjer ei munt neita. Lát enga neyð nje háska hjer, Heilagi! skilja mig frá þjer, Ógna nje árás veita.

4. Endurlausnarinn mildi minn! Mína þú synd rjeðst bera, Samarfa mættir svo mig þinn Í sælu himins gera; Eg veit sú bæn nær og til mín: „Æ faðir minn! af gæzku þín Líknsamur virzt þeim vera.

6*

5. Af öllu hjarta, ó Jesú! Eg vil mjer til þín snúa. Í faðminn þinn mig fela nú, Og fyrir mjer þjer trúa. Góðan viðskilnað gefðu mjer, Glöðum og frjálsum æ hjá þjer Í engla byggðum búa.

## 113. Sálmur.

Lagið: Hver sem að reisir hæga byggð.

1. Jeg gestur er í heimi hjer, Mitt hverfur líf sem skuggi; Nær æfin manns, hvað mætust er, Hann margt þó bölið hryggir. En heimkynnið jeg horfi á, Og held ókvíðinn götu þá Um dimmu dauðans liggur.

2. Sem frávillt barn um fjarlæg lönd Ei flótta spor jeg tvinna; Nei! fús og glöð mín ferðast önd Til föður húsa sinna. Þar kemur faðirinn móti mjer, Og mildur leiðir heim með sjer, Og englar fögnuð finna.

3. Úr eymda glaður gegn jeg dal, Þar grafa menn hlekki mína; Á himnum sætið hafa skal Mitt hjarta unan sína. Hvað sæll sá kemst í herrans hönd, Og himnesk byggir friðar lönd Þar stormar heims ei hvína!

## 114. Sálmur.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

1. Harla mjög mitt hjarta langar Heimsins raunum leysast frá, Inn í himna gleði gánga Guði mínum ástvin hjá; Koma í fagra frelsis borg,

Frí við breiskleik, neyð og sorg; Eilífar hjá þjer öðlast vistir, Ó minn herra herra Jesús Kristur!

2. Þú af gæsku gafst án saka Glaður líf til frelsis mjer. Eg svo skyldi' að erfðum taka Eilíft líf með sjálfum þjer; Völ og byrði vil jeg mín Varpa loks að fótum þín, Bæn míns hjarta í hinnsta sinni Hella út á fótskör þinni.

3. Fáráð hrelldum fyrir gefðu Fyrir þinn deyð hans misgjörðir! Og til reiknings ei þann krefðu, Er um miskunn grátbænir. Styrk í dauðans stríði mig, Og stytt það, mildin guðdómleg! Hugga þá sem hjá mjer standa Hryggvir þá jeg gef upp anda.

4. Fyr eða seinna að bana beði Bleikir hníg-um allir vjer. Sæll er sá með sáttu geði Og sannri trú af heimi fer; Sæll er sá sem setja kann Sína von á frelsann; Sæll er sá sem líf nær linnir, Líkn og huggun blíða finnur.

5. Yður drottinn alla blessi, Er yfir vinum fell-ið tár, Og með sinni huggan hressi, Hjartna yð-ar græði sár! Guð þann yður gefa vann, Guð þó taki burt hjeðan, Löng er hvorki leið nje Stund-in; Lífs og dauðra' er skilur fundinn.

6. Guðs fyrir vini all-löng ekki Upp til himna leiðin er. Sjálfur drottinn sína þekkir, Sjer í hjarta þá hann ber. Þó hann skilji þá um hríð, Það er ei nema stuttu tíð. Í eilífum friði faðir-inn mætur Finnast aptur glaða lætur.

7. Guðs þjer skuluð aldrei yggja Eilífa mildi'

og vísdóms ráð; Heldur ætíð öruggt byggja Á hans mátt og föður-náð; Hafa keppist hverja stund hreina sál og meðvitund. Orði' hans treystið æ og hlýðið, Allt þá lyktar vel um síðir.

8. Lifið vel! jeg vil nú blunda, Vera friðarins landi á; Æ vel komnir innan stundar Allir mjer að búa hjá; Hversu er rúmið hægt og rótt; Hversu bráðum líður nótt. Lifið vel! mitt vitnar hjarta: Vjer vöknum guðs í ljósi bjarta.

9. Hjartað allt og hugurinn vendir, Herra Jesús! nú til þín: Í þínar ljúfu líknar hendur Líf jeg fel og sálu mín; Kem í fagra frelsis borg, Frí við breiskleik, neyð og sorg; Eilífar hjá þjer öðlast vistir, Ó minn herra Jesús Kristur!

## 115. Sálmur.

Lagið: Nú látum oss líkamann grafa.

1. Senn lokar dauðinn loks þá hvarma, Sem lengi felldu tárin harma; Senn fæ jeg hvíld og friðinn því Foldar kyrrlátu skauti í.

2. En æ! þá dauðans-eymd og pína Um kringja mig með skelfing sína, Hræddu kunngjörðu hjarta mín, Himneski faðir! miskunn þín.

9. Nær raust mín skert svo skilst hún varla Skapari minn! á nafn þitt kallar, Dauða stundunni döpru á Ó drottinn, breið mjer faðminn þá!

## 116. Sálmur.

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta.

1. Sæll ert þú, er saklaus rjeðir Sofna snemma dauðans blund, Eins og lítið blóm í beði Bliknað fellur vors um stund. Blessað hjeðan barn þú gekkst, Betri vist á himnum fjekkst, Fyr en náðu vonzka' eða villa Viti þínu og hjarta spilla.

2. Guði sál þín geðjast hefur; Geymdan hvers kyns hættu frá Sonur guðs að sjer þig vefur, Og sælir englar himnum á; Eitt sinn gleðja þar munt þú þá er sárt þig gráta nú. Náðar lífs og sannleiks sæta Senn hjá brunni þeim skalt mæta.

3. Stillið harm og söknuð sáran, Særðu hjörtun angurvær! Ei hin djúpa dauðans báran Drekkt nje granað neinu fær, því sem jarðneskt ekki er. Ó hvað dýra huggan ljer: Að allt hvað eðli himneskt hefur Himninum aptur dauðinn gefur.

4. Góði Jesús! gef oss öllum Hið góða barnsins hjartaþel. Gef að aldrei frá þjer föllum, Forðumst syndir heims og vjel. Sálarprýði sje vor ein Sakleysisins rósemd hrein. Þú villt að eins hreinu hjarta Húsið opna föðurs bjarta.

## 117. Sálmur.

Lagið: Öll náttúran enn fer að deyja.

1. Hversu gleðin hvarf mjer í skyndi! Harmur kom og rænti mig yndi. Æ mitt barn — því er jeg svo hryggur — Örent hjer sem fölnuð rós liggur.

2. Herra Jesús, huggarinn blíði, hugsvalaðu mjer nú í stríði! Guðs míns vilja gef mjer að una, Til gæzku hans og speki að muna.

3. Þú fær huggan harmþrungnum búið, Hinum villtu' á rjetta leið snúið, Gjört hinn veika styrkan í stríði, Stöðugt þjer ef treystir og hlýðir.

4. Dauðans myrk þó dimma mig spenni, Dreift og af ljett þú getur henni. Einn ljósgeisli orðanna þinna Upp fær ljómað nótt grafarinnar.

5. Hvað þú gjörir, himneski faðir! Harla gott og rjett veit jeg það er; Vizka þín það veit ein og metur, Veit hvað sanna farsæld mjer getur.

6. Styrk mig, þó jeg þegjandi gráti, Þinn að vilja geðjast mjer láti: Mjer í hörmung hugsvala minni; Af himni send mjer engil svo vinni.

7. Þú þekkir Jesús sorgina sáru, Sambryggðist þeim harmarnir skáru, Hjarta blæði helltir út þínu, Hjartna vorra' að sefaðir pínu.

8. Þegar þú á oss leggur aga, Að þjer viltu hjörtu vor draga; Þær jeg blessa þess vegna brantir, Þínu nær sem færa mig skanti.

9. Betur veit jeg barn mitt þú geymir, En bezti gæti faðir í heimi; Og að blessað hlutskipti hlýtur, Hver sem þinnar samvistar nýtur.

10. Því skyldi' eg nú þess vegna gráta, Þó þú vildir barnið mitt láta Flekklaust koma í fóstrið á hæðum, Og frelsast snemma lífsins frá mæðum.

11. Eitt sinn slær þinn alveldis-sprotinn Á okk-

ar gröf, og kvist, nú af brotinn; Fagran þá í fögnuði þínum, Foreldrunum gefur þú sínum.

12. Svo er eðlið ástar hið blíða, Hún oilir því títt að menn líða; En mitt í grát þó gleði fær smakkað Og grafarinnar vonað á bakka.

## 118. Sálmur.

Lagið: *Heimsins stýrir forsjón fasta.*

1. Hvíldu' í blessan hjer og friði, Holli og dyggvi guðsþjóninn! Í þíns herra gakk nú gleði, Góðra þjóna laun þar finn! Hjer er sorg og harmur nú; Horfinn því frá oss ert þú, Er svo trúr í alla staði Oss varst hirðir, vinur, faðir.

2. Guðs orð hreint og klárt þú kenndir. Krists á sauðum hafðir vörð; Kenning með og breytni bentir Á brautir lífsins þinni hjörð. Af alúð skulum allir vjer Í öllu góðu fylgja þjer; Fyrir vorum börnum brýna Breytni góða og kenning þína.

3. Farðu þá í friði hjeðan, Friðarins vin og Samjarinn! Friðarins guð þú fá munt sjeðan, Í fögnuð hans nú gakk þú inn. Gæzkan hans, er gjörvallt sjer, Og greiðir laun sem verðugt er, Á þjer mikli mildi sína, Manndyggð launi' og góðvild þína.

7. Þegar vin frá vinum slítur Voða-þrungin dauðans nótt, Þungan stynja hjartað hlýtur, Harma drjúpa tárin ótt. En himna faðir helgur sá, Hörmung þessa' er leggur á, Gleði morgun gefur nýjan, Geislum roðinn, harma frýjan.

## 119. Sálmur.

Lagið: Hver sem að reisir hæga bygð.

1. Ó herra Jesús! hjálpa mjer, Við heim nær verð jeg skilja; En hvenær eða hvar það sker það hvíli' á þínum vilja. Mín dauðastund er dulin mjer, Hún drottinn skrifuð er hjá þjer, Sem öll rjeðst ár mín telja.

2. Þinn góður vilji verði á mjer Jeg vel hann læt mjer falla; En hjálpa' að glaður hlýði' eg þjer, Nær heim þú villt mig kalla: Og hjer þess unn mjer forsmekk fá, Hver fullsæld er að vera þjer hjá Í dýrð um eilífð alla.

3. Kenn mjer með betran, bæn og trú, Að bíða stundar minnar, Að sælu hnoss er hjetzt mier þú Mjer heppnist loks að finna; Já, vegferðar mjer veit hvert stig Í von og helgan búi mig Til friðar funda þinna!

4. Allt fram í andlát greind mjer gef Og guðrækilegt sinni, Svo kvikt á meðan hjarta hef, Jeg hafi þig í minni. Og ef þjer þóknast, unn mjer þá Í eigin húsi vinum hjá Jeg síðast sofna kynni.

5. En ef þú hefur ásett þó, Að úti' á förnum vegi Í háskaveðri, vötnum, sjó, Jeg voveiflega deyi þá verði', ó guð! þitt visdóms ráð, En veittu mjer að eins þá náð, Að sæll jeg sofna megi.

6. Æ drottinn! þegar megn og mál Frá minni tungu vendir, þá heyr þau kvök, er kramin sál Og klökk upp til þín sendir, Og blítt á skarið

blástu þá, Og beiskleik dauðans leys mig frá Með ljúfri líknar hendi.

7. En þjer, ó dýrðar drottinn! má Ei duptið reglur smíða; þitt vald jeg gef mig allan á, Og engu skal svo kvíða; þú villt mjer vel, það veit jeg bert, Og vinur minn og faðir ert, þó deyð mig látir líða.

8. Mitt athvarf sjertu og einka hlíf Í öllum lífsins mæðum. Já! ef þú Jesús ert mitt líf, Mig auðgar dauðinn gæðum, Og vel jeg enda veðhlaup mitt Nær vona' á þig og orðið þitt, Og kransinn hreppi' á hæðum.

## 120. Sálmur.

Lagið: Guð miskunni nú öllum oss.

1. Minn ástvin dauðans hefur hönd Hrifið frá síðu minni; Hvar get jeg vænt mín hryggva önd Huggan og rósemd finni? Guð! virztu' að styrkja veikleik minn Og von í þessu stríði; Kenn mjer að virða vilja þinn, þó viti' ei hvað hann þýðir; Hjálp mjer jeg trúi' og hlýði.

2. Hve myrk sú leið og erfið er, Sem einn jeg verð að þreyta! — En friðarstaðinn sál mín sjer, Er senn skal hvíld mjer veita. Foreldrar vorir falla í gröf, Börn, frændur, ektamakar, Svo vitum lífið völt er gjöf, Ei vara gleymum taka Á sálu vorri', og vaka.

3. En eitt ei brugðizt forsvar fær, þeim frómr-

lega sjer hagar: Guð er í gleði og neyð oss nær, Og næstur þá hann agar; Hann föðurlausra faðir er, Og forsvar ekkjum geymir. Neitt ævarandi athvarf hjer Er ekki' er ekki að fá í heimi, En guð oss aldrei gleymir.

4. Ei kristinn syrgja maður má, Sem menn þeir von ei hafa. Á himnum fyrri hvíld nær sá, Í heimi' er fyr menn grafa. Hann fór að eins á undan mjer, Sem auga mitt nú grætur; Þar fagra vista fjöldi er, Þú faðir himna mætur! Mína mig líta lætur.

## 121. Sálmur.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

1. Ó! þú sem sefur syndum í, Og synda kætin gleður ný, Rís upp, rís, upp! því tæp er tíð, Og tími náðar þver um síð; Rís upp, rís upp! því enn þá er Guðs ást og miskunn boðin þjer.

2. Sjá! guð sem faðir hrópar hjer, Og hendur breiðir móti þjer. Ó taktu fús hans miskunn mót Með sannri trú og yfirbót. Þá himnahliði loks er læst, Ei líknin framar dæmdum fæst.

3. Yfir þjer hangir dauðans dör; Dagarnir fljúga skjótt sem ör; Hvern dag þú guði færist, fjær, Fordæmingunni nær og nær; Aptur að snúa ekki drag, Enn þá er tími nú í dag.

4. Ó hvað er glæpa gleðin aum! Geðfelldum líkt hún hverfur draum. Hvað er þinn styrkur?

Stytta veik, Er strax nam bila, og húsið sveik. Hvað aurasafn og ofur fjár? Að ending moldar rekur þrjár.

5. En hvað er dyggðin dýr og merk: Að dagleg vinnum skyldu verk. Hver er sú speki, er hagar vel? Síns hjarta opt að prófa þel; Hvað trú guðræknis góðfúss manns! Gleðilegt traust til skaparans

6. Hver er hans styrkur? Herrans náð, Og heilags anda spakleg ráð. Hver dagastörf hans dyggileg? Til dauðans vel að búa sig. Hvað er hans dauði? Heimför blíð Til himinsins á rjettri tíð.

7. Ó maður! skoða og glöggt að gá þann guðs fögnuð og vegsemd þá, Er þeim af gæzku gefur hann, Er geymdu trúna og kærleikann. Í sælli ró og sálar frið það samvizkan fær kannazt við.

8. Hver limur skjálfi og liður minn! Jeg líta vil í afgrunninn; þar himnadrottins hegning stríð Á harðsvíruðum brennur lýð; þar geysa skelfing, grátur, vein. En guðs ei mildi spor sjást nein.

9. En hjartað gleðst og munnur minn Hinn milda lofar drottinn sinn, Nær sje jeg í anda sælu þá, Er son guðs Jesús himnum á, þeim undir búa og ætla vann; Sem elska guð og náungann.

10. Æ! styrk þú drottinn, styrk þú mig, Að stunda boð þín föðurleg; Lát mig ei gleyma' að sjerhver synd Er sálu minni dauðans lind.

Leiðtogi vertu og ljósið mitt Í lífi og deyð, og orðið þitt.

## 122. Sálmur.

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta.

1. „Þú skalt deyja og dæmast síðan“ Drottins eilíft lögmál tjer. Holdið má til moldar líða, En mannsins sál ei dauðleg er; Hún af drottni dæmast á; Dómur hennar verður sá, Heilagleiki hans er vildi, Hver um eilífð síðan gildir.

2. Herra, fyrir hegning þinni Himnar skjálfa, titrar storð; það í tíma mig á minni Míns að geyma Jesú orð. Líf og dauði — gættu á! — Leikur valið þessu á. Vel, ó sál mín! vel hið bezta, Og vali þínu ekki fresta.

3. Herrann ei oss hingað setti, Hjegóminn að sje vort mið, Heims að skulum hyllast pretti, Holdsins munað sofa við; Heldur til þess boð hans bíð Bljúgir geymum ár og síð, Í Ást og eining upp til hæða Allir stöðugt keppumst þræða.

4. Guðlegt líf og góðan enda Guð samtengja þetta vann; Hver frá illu ei nam venda Í eilíft myrkur ratar hann. Já þau dýrkeypt gæðin góð, Guðs er sonur ávann þjóð, Einnig þeim að engu verða, Er í glæpum djarft sig herða

5. Mildi Jesús! mjer til bezta Mínum högum öllum snú; Ávalt betur unn mjer festa Ást á þjer, og styrka trú. Tak hið illa allt frá mjer, Allt

hið góða' eg hef í þjer. Styrk mig þínu lífi að lifa, Lát mjer ekkert frá því bifa.

6. Hels nær kemur stríða stundin, Styrk mig veikan, Jesús minn! Anda míns nær bresta böndin, Ber hann þá í himininn. Verðskuldan og vörnin mín Veri blessuð árnan þín. Láttu mig um aldir alda Elska þig og lof þjer gjalda!

## 123. Sálmur*.

Lagið: Krists er koma fyrir höndum.

1. Ó vöknum! Sjá oss vekur. Voldug af himni raust, Þögn dauðans þunga hrekur, Og þrumar værðarlaust Gröfunum eitt sinn yfir: „Upp dauðir rísið þjer! Drottinn í dýrð sem lifir Til dóms nú kominn er".

2. Jörð, höf og himnar skjálfa; Herflokkum engla með Son Mannsins munu sjálfan Menn fá í skýjum sjeð, Með dýrð og dásemd mætri; Djúp opnast, hrynja fjöll; Kringum hans konungs sæti Heims kynslóð safnast öll.

3. Með von og megnum kvíða, Sem málað enginn fær, Dauðþöglar dróttir bíða, Unz drottins röddin skær Skilnaðar skipan gefur; Skjótt heyrist kæti og vein, Þá dýrð útvalda vefur, En vonda skelfing ein.

4. Jesús! þín koma kætir Kraminn og hrelldan mig; Nær jeg þess grandvar gæti Að ganga á

*) Sbr. Matth. 25, 31. o. fl.

þínum stig; þá lít jeg gröf með gleði, Hún grát í fögnuð snýr; Hvíldarm þeim húms á beði þú himna dýrð mjer býr.

## 124. Sálmur.

Lagið: Himinsól vendi í hafsins skaut inn.

1. Á himnum, á himnum, þar herrann guð býr, Hvað háleit er sælan, hvað mikil, hvað dýr! Augliti þar jeg til auglitis má, Frá eilífð til eilífðar guð sjá.

2. Á himnum, á himnum er hrein dýrð og skær, Hádegis sólin ei líkzt henni fær; Sú sólin sem eilíf og sí-björt skín hjer, Sjálfur það drottinn vor guð er.

3, Á himnum, á himnum er fullsælan frí Í flokki guðs heilagra um eilífa tíð. Önd mín þar verða skal englunum lík, Af eilífum lífs gæðum flugrík.

4. Á himnum, á himnum eru' horfin öll tár, Harmur og dauði, og kveinanin sár. Á himnum er fögnuður, friður og líf, Fullsælan guðdómleg, eilíf.

5. Á himnum, á himnum sú ofurgnægð er Eilífrar dýrðar, sem nokkurs manns hjer Eyrað ei heyrði, nje auga nam sjá, Ei heldur hugur bar skyn á.

6. Á himnum, á himnum hinn heilagi býr

Heimanna og veranna faðirinn dýr. Engla þar þrítekur herflokkur hver: „Heilagur drottinn vor guð er"!

7. Himneski faðir! nær hjeðan jeg fer þíns himins þá opnaðu Paradís mjer. Já! ef jeg í trú held mjer öruggt við þig Eilífri krýnir þú dýrð mig.

---

# Upphöf sálmanna.

Sálmnr.

## H.



## Í.



## J.

Sálmur.

**K.**



**L.**



**M.**



**N.**



**Ó.**

Sálmnr.

# Leiðrjettingar:

---

3. bls. 5. l. að neðan: flestir les: sumir; bls. 4[2]. svo margir les: margir svo; bls. 7[19] Dýrð þjer, les: Dýr þjer; bls 67[3] vít les: vit; bls. 70[2] bönd les: hönd; bls. 77 neðstu línu: bíta les: býta; bls. 114[9] Jesss les: Jesús. Svo var til ætlazt að upphafsstafur byrjaði hending hverja, en í ekki svo fáum stöðum hefur þessa ekki verið nógu vandlega gætt, en það vísar lagið lesendunum á rjettan lestur.

---

